# ÁRBÓK

HINS

# ÍSLENZKA FORNLEIFAFJELAGS

1897.

REYKJAVÍK.
PRENTUÐ Í ÍSAFOLDARPRENTSMIÐJU.
[illegible]

# ÁRBÓK

HINS

# ÍSLENZKA FORNLEIFAFJELAGS

1897.

---

REYKJAVÍK.
PRENTUÐ Í ÍSAFOLDARPRENTSMIÐJU.
1897.

# Efnisyfirlit.

# Rannsókn

## í Mýra- Hnappadals- og Snæfellsnessýslum sumarið 1896.

Eptir

**Brynjólf Jónssoo.**



### I. Gufuskálar.

Svo segir í Landn. II. 24. »Ketill gufa . . . fekk öngvan bústað á Nesjum, ok fór hann inn í Borgarfjörð, ok sat hinn þriðja vetr at Gufuskálum við Gufá«. — Og svo segir í Eglu, kap. 77.: »Síðan fór hann (Ketill gufa) inn í Borgarfjörð, ok sat þar hinn þriðja vetr, er síðan er kallat at Gufuskálum, en áin Gufá, er þar fellr í ofan, er hann hafði skip sitt í um vetrinn«. — Nú er örnefnið *Gufuskálar* ekki til, og ekki hægt að segja, hve langt er síðan það týndist. En sízt er að undra þó það hafi horfið, því *staðurinn*, sem bar það nafn, *er ekki framar til*. Svo stendur nefnilega á, að allstaðar inn með Borgarfirði norðanmegin brýtur sjórinn landið árlega, þar sem ekki er fast berg fyrir. Svo hefir gengið frá ómunatíð, því sunnanveður eru þar oft mjög sterk, er vindur stendur fyrir Hafnarfjall. Hefir sjórinn því smámsaman lagt þar undir sig mikið víðlendi og myndað úr því leirgrynningar. En aftur á móti breikkar landið af árburði sunnanmegin fjarðarins. Sjór fellur út af leirgrynningunum um fjöru; en Hvítá fylgir norðurströndinni út fjöruna og færist því stöðugt norður á við. Liggur nú straumsvið hennar um það svæði, sem Gufuskálar hafa áður verið. Það er allt afbrotið, svæðið sem þeir hafa verið á, nema lítill tangi, út af Ölvaldsstaða-eingjum, sem heitir Lambatangi, og er hann þó umflotinn af sjó um flóð nú orðið. Á honum er tóft, nokkuð fornleg, og þykir vera mega, að hún sje eftir af búðatóftum á Gufuskálum, er smámsaman hefir orðið að færa undan sjó. En búðir hafa þó verið

þar meðan sigling var upp í Gufá. Enga áherzlu legg jeg samt á það, hvort tóftin á Lambatanga er forn búðatóft eða ekki. Um það er ekkert hægt að fullyrða. Milli Gufáróss, þar sem hann er nú, og Hvítáróss er nokkuð langt um flóð. En í fornöld, meðan landið var svo miklu breiðara, eru líkur til að Gufárós hafi verið töluvert austar og nær Hvítárósi. En Gufuskálar hafa verið fyrir austan Gufárós en vestan Hvítárós. Hafa þeir því í fyrstunni, er þeir fengu nafnið, verið nálægt Fjarðarbotninum ofan frá Ferjubakka, en smámsaman færst norðvestur á við, unz þeir hurfu með öllu. Þegar þetta er haft í huga, verður ferð Þórðar Kakala (Sturl. 7. þ. 10. k.) jafn auðskilin eins og hún virðist torskilin, ef landslag á þessum stöðum er hugsað að hafa verið eins og nú, og Gufuskálar nálægt Gufárósi sem *nú* er. Þar segir svo: »Reið Þórðr þá ofaneftir dal ok ætlaði yfir um á at Gufuskálum, og svo vestr Langavatnsdal. En En er hann kom ofan á Völlu, var sagt at ei væri hrossís yfir ána; sneri þá flokkrinn allr upp til Grófarvaðs«. Hjer stendur raunar: »ofan« til Grófarvaðs; en það er auðsæ ritvilla. — En örnefnið *Gufuskálar* mun vera rjett. Þar niður við ósinn, — hjá eða skammt frá þessum alþekkta stað, sem því var sjálfsagt að miða við, — leggur Hvítá fyr enn annarsstaðar; hefir Þórður þózt ganga að því vísu, að eftir norðanveðrið, sem undan var gengið, hlyti hún að halda þar. Og þó það væri mikill krókur að fara ofan þangað, er síðan skyldi þó ríða Langavatnsdal, þá mátti telja það tilvinnandi, til að komast tafarlaust yfir ána; enda hefir það ekki verið fyrirsjáanlegt um morguninn, að þá væri nokkurt vað á henni fært fyrir ísskriði. Var því ekki um annað að gjöra enn fara krókinn. Hefir Þórður því farið sem beinast úr Lundarreykjadal ofan á Völlu. Ari á Lundi hefir ógjörla vitað hvar Þórður mundi fara um hjeraðið; hann reið fil Bæjar »sem hvatast«, »er hann varð varr við flokk Þórðar«. Hann hefir ekki beðið þess, að hafa tal af þeim, en þótt vissara að vara Böðvar við í tíma, eins og nærri má geta. — Svo er að sjá, sem veður hafi gengið til þíðu, er fram á daginn kom. Þegar Þórður kemur á Völlu, er frost svo dregið úr, að ísnum sem nýlagður var á ána, þótti ekki treystandi; enda ísskriðið farið að rjena svo, að nú sást, að Grófarvað mundi verða orðið fært þegar þangað kæmi. Þórður er því á rjettri leið þangað, er hann fellur í síkið upp frá Þingnesi. — Kolbeinn hefir líka ætlað, að áin væri fær á ís niðurfrá, en vöðin ófær. Hann er í engum efa um að elta Þórð »ofan á Völlu«. Þangað hefir hann komið er Þórður var nýfarinn. Þetta sýnist allt mjög ljóst og auðskilið. Hygg jeg vafalaust, að Sigurður sál. Vigfússon hefði komizt að þessari sömu niðurstöðu, ef hann hefði hitt fyrir nógu kunnuga menn til að bera sig

saman við. Um aðra staði, sem hann nefnir í þessu sambandi, svo sem *Grófarvað*, *Bakka*, *Bakkavað* o. fl. er jeg honum alveg samdóma og vísa til þess sem hann hefir sagt. (Árb. fornl.fjel. 1884—85, bls. 106—112).

## II. Grímólfsstaðir.

Svo segir í Eglu, k. 28: »Grímólfr byggði fyrst á *Grímólfsstöðum*. Við hann er kennd *Grímólfsfit* og *Grímólfslækr*«. Öll þessi örnefni eru nú týnd; en *Grímólfskelda* heitir mýrarkelda ein, er rennur til austurs í vogsbotninn, sem er austanhalt niðurundan bænum Hamri. Kelda þessi er enginn »lækr« og hefir víst aldrei verið. En vogurinn sem þar er, og fyllir út milli Einarsness og Digraness (nú Borgarness) hefir til forna verið lítill eða enginn; hefir þar verið flæðiengi sem nú er sjór; hefir keldan, er hún kom þar ofan á engið, orðið að læk; er þar hefir runnið út í sjóinn. Vestan fram með þeim læk mun engið hafa heitið *Grímólfsfit*. Holt eitt lítið er snnnanmegin keldunnar nokkrum föðmum ofar en hún kemur nú í vogsbotninn; á því holti er rúst, fornleg og óglögg; eigi er hægt að ákveða stærð hennar, því af austurenda holtsins hefir allur jarðvegur blásið burt og er flagið nýgróið; hefir þar blásið burt austurhluti rústarinnar. Norðan og vestan við hana eru líka dálítil rof. Finnast þar molar af sindri og gjalli. Jeg hirti þar lítinn mola, sem leit út fyrir að vera hálfbræddur járnsteinn, og gaf jeg hann forngripasafninu. Það er sennilegt að þessi rúst sje eftir af bænum *Grímólfsstöðum*; bendir keldan einkum til þess. En eigi ber afstöðu þessarar rústar allskostar heim við afstöðu rústar þeirrar, er S. V. ætlar vera *Grímólfsstaði*. Þó má vera að allt sje sama rústin; og hafi hann ekki sjeð hana sjálfur, en farið eftir annara sögn og henni eigi vel greinilegri.

## III. Granastaðir.

Svo segir í Eglu, 28. k: »Grani bjó á Granastöðum í Digranesi«. *Digranes* er hið sama nes, sem nú er kallað *Borgarnes*. Nafninu var breytt þá er það var gjört að verzlunarstað. Það er allstórt nes, myndað af misstórum klapparásum með lautum og sundum á milli. Rústir fann jeg þar á þrem stöðum. Hin syðsta er spölkorn fyrir norðan Skallagrímsdal; hún er í brattri brekku sunnan í háum ás vestantil á nesinu. Hún er gamalleg og mikil um sig, en hefir þó helzt útlit fyrir að vera stekkjartóft. Bæjartóft er það auðsjáanlega ekki. Miðrústin er lengra inn á nesinu austan-

til; það er allglögg stekkjartóft og eigi gömul. Þriðja rústin er næstum innst á nesinu vestanverðu. Gengur þar klapparnef vestur í voginn; en sjór hefir brotið sig inn með því báðum megin, er áður má hafa verið láglent graslendi. Nefið er hæst að framan, en slakki milli þess og ásbrekkunnar fyrir ofan. Í þeim slakka er rústin. Hana hygg jeg vera rúst *Granastaða*. Hún er allstór um sig: um 12 faðm. frá austri til vesturs og um 9 faðm. frá norðri til suðurs. Eigi var hún glöggvari en svo, að jeg varð að láta grafa í hana skurð, til þess að fá hugmynd um legu veggjanna. Þóttist jeg sjá, að hjer mundi vera 3 tóftir samhliða frá norðri til suðurs, en þó breitt bil milli hinnar austustu og hinna tveggja; en þær aftur hafa að eins vegg milli sín. Vestasti veggurinn leit út fyrir að hafa verið um 4 álna þykkur, en tóftin að eins rúml. 3 álnir á breidd; milliveggurinn nær 3 al. þykkur og innri tóftin þar á borð við; en innsti veggurinn, við millibilið, eigi meir en svo sem $1^1/_2$ al. þykkur. Millibilið 3 faðma breitt, og ætla jeg að vottað hafi fyrir hleðslu fyrir öllum suðurenda þess. Í norðurendanum hugði jeg það opið að mestu eða öllu. Austasta tóftin var um 8 al. breið. Vestur veggur hennar, sem að millibilinu vissi, virtíst glöggvari en hinir áðurtöldu; en er í hann var grafið, urðu fyrir sundurlausir steinar, en eigi samfelld hleðsla, og gat jeg því eigi ákveðið þykkt hans. Má vera að þar hafi hizt á dyr, er snúið hafi inn að millibilinu. Þó skal jeg ekkert fullyrða um það, og yfir höfuð ekki um dyr á neinni af tóftum þessum. Norðurenda austustu tóftarinnar ljet jeg grafa út, lágu þar steinar miðsvæðis, er mynduðu eins og dálítinn flór og ferhyrnd hola við norðurenda hans, þó vantaði stein fyrir norðurhlið hennar. Þetta hefði getað verið eldstæði, en eldslitur sást þó ekki á steinunum. — Vegna óveðurs og vegna þess að verkamenn voru torfengnir um sláttinn, varð jeg að hætta þessum útgrefti án þess að komast til fullrar vissu. En þess gætti jeg, að eigi væri haggað steinum þeim, er í ljós komu er grafið var.

## IV. **Hvar bar kistu Kvöldúlfs að landi?**

Svo segir í Landn. I. 18.: »Grímr enn háleyski . . . var forráðamaðr með Kvöldúlfi á því skipi er hann stýrði; . . . ok er mjök sóttist hafit tók Kvöldúlfr sótt; hann bað þess, at kistu skyldi gera at líki hans ef hann dæi, ok bað svá segja Grími syni sínum, at hann tæki skammt þaðan bústað á Íslandi, er kista hans kæmi á land, ef þess yrði auðit. Eftir þat andaðist Kvöldúlfr, ok var skotit fyrir borð kistu hans. Þeir Grímur sigldu suðr um landit, . . . vestr fyrir Reykjanes ok stefndu inn á fjörðinn; skildi þá með þeim

svá at hvarigir vissu til annara. Sigldu þeir Grímr enn háleyski alt inn á fjörðinn, þar til er þraut sker öll, ok köstuðu þá akkerum sínum. En er flóð gerði fluttust þeir upp í árós einn ok leiddu þar upp skipit sem gekk, sú á heitir nú Gufá; enn er þeir könnuðu landið, höfðu þeir skammt gengit út frá skipinu, áðr þeir fundu kistu Kvöldúlfs rekna í vík eina; þeir báru hana á það nes er þar var, og hlóðu at grjóti«. Frásögn Eglu um þetta, k. 27. er lítið eitt orðfleiri, en efninu ber svo saman, sem ritari annarar sögunnar hefði kunnað hina. En hjer má segja um frásögn beggja þetta vanalega: »Það er eins og í sögu segir«. Söguritararnir hafa fundið til þess, að frásögnin getur því að eins orðið lífleg og fögur að hún sje ekki limuð sundur með óþarfri nákvæmni. Þeir segja báðir frá sótt Kvöldúlfs, ráðstöfun hans og dauða hans, öllu í einu lagi; það var allt svo skilt. En svo fara þeir að segja frá Grími háleyska og ferð hans. Þeir ætlast til þess, sem eigi er heldur ofætlun, að lesandinn sjái, að hjer er sagt frá tvennu, sem gerist á sama tíma, að mestu leyti, og honum líklega eigi allstuttum; en þó fyrst sagt frá öðru og síðan frá hinu, svo frásögnin yrði líflegri og fegri. Verður að gjöra sjer ljósan gang sögunnar á þessa leið: Grímr háleyski, sem var forráðamaður með Kvöldúlfi, tók alveg við stjórn skipsins er Kvöldúlfur sýktist, en þó var hann talinn fyrir meðan hann lifði. Það var þá »er sóttist hafit« að Kvöldúlfur sýktist. Honum þyngir æ meir á leiðinni suður fyrir landið og inn á Faxaflóa. Þá gerir óveður og skipin skiljast að. Nú verður Kvöldúlfur »banvænn« og gerir ráðstöfun sína. Þá er hann deyr, er skipið komið inn í mynni Borgarfjarðar og þar er kistu hans skotið fyrir borð. Hefði það verið gjört úti í regin hafi, þá er líklegast, að hún hefði ekki einusinni borizt inn í flóann. Og hefði það verið gjört einhversstaðar úti á flóanum, þá er hætt við, að hún hefði fremur borizt aðra leið enn inn í Borgarfjörð. En úr því hún var komin inn í fjarðarmynnið, var aðfallið ekki lengi að bera hana inneftir, og þá var líklegra, eftir því sem tilhagar, að hún lenti norðanmegin. Þó liggja straumar þannig, að hefði hún sloppið inn fyrir vík þá í Digranesi, er gengur upp að suðurendanum á Skallagrímsdal, þá gat hún naumast náð landi utar enn í Einarsnesi. Sagan virðist nú líka benda til þess, að kistan hafi lent nokkuð innarlega, því þeir Grímur fundu hana, »er þeir höfðu skammt farit« út með firði frá Gufá. Auðvitað er þó, að kistan hefir ekki lent í Einarsnesi, því þá hefði Skallagrímur byggt *þar* enn *ekki að Borg*. Menn hafa samt talið víst, að hún hafi lent innantil við Digranes; mun sögn um það hafa gengið í munnmælum áður, að legstaður Kvöldúlfs hafi verið á *Kvöldúlfshöfða*; og það örnefni

tilorðið af þeim munnmælum. Um sannleik í þeim er ekkert hægt að segja. Þó er líklegra, að Kvöldúlfshöfði væri nefndur í sögunni, ef hann hefði borið það nafn þá er hún var rituð. Það er nú líklegra, að kistan hafi ekki borizt innfyrir víkina við Skallagrímsdal, sem fyr er nefnd. Og hefði hún lent í þeirri vík, lá næst að jarða hana þar í dalnum, og þá lá líka beint við, að heygja Skallagrím einnig í sama dalnum, hafa hann fyrir *grafreit ættarinnar*. Þetta er falleg hugmynd og sennileg, því fremur sem þar í sunnanverðum dalnum er ávöl grjótbunga, eigi ólík útflöttum haug. Í hana ljet jeg því grafa; en hún reyndist náttúrlegur grjótbali, og ekki mannaverk. Við það styrktist hjá mjer sú hugsun, — sem raunar vakti fyrir mjer áður, — *að* meiri áherzlu beri að leggja á þessi orð sögunnar (Landn.): »hann (Skallagrímur) reisti bæ *hjá vík þeirri* er kista Kvöldúlfs kom á land«, heldur en á orðin: »þá höfðu þeir *skammt* gengit« o. s. frv., því orðið »*skammt*« hefir mjög óákveðna merkingu, en orðin: »*hjá vík þeirri*« eru beint ákveðin og geta ekki átt við annað enn *Borgarvog*. Þá hefir hann getað heitið »vík«, því þá hefir allur innri hluti hans verið graslendi (flæðiengi), en sjórinn síðan brotið það af þar eins og víðar. Um það flæðiengi hefir Borgarlækur runnið út í víkina, og verið skipgengur um flóð. Egla nefnir hann samt »vág«; og hún gefur í skyn, að kistan hafi eigi lent inni í vognum sjálfum, en að hann (Borgarvogur) hafi verið *næstur því er Kvöldúlfur kom til lands*. Þetta er nú óákveðið. Það getur bæði, átt við Digranes, austan vogsins, og líka við ströndina *fyrir vestan hann*. Mjer þykir þetta síðasta eigi ósennilegt; getur *nes* það, er þeir jörðuðu Kvöldúlf á, verið eitthvert nafnlaust smánes þar. — Yfir höfuð verður ekkert fullyrt um þetta, þar eð ekki hefir tekizt að uppgötva nein merki, er bendi á legstað Kvöldúlfs á nokkrum vissum stað.

## V. **Skallagrímshaugur.**

Svo segir Egla: k. 58: «En um morguninn at flóði var lagðr Skallagrímr í skip ok róit með hann út til Digraness, lét Egill þar gjöra haug á framanverðu nesinu. Var þar í lagðr Skallagrímr ok hestr hans ok vapn hans ok smíðatól«. Eins og frá er skýrt í Árbók fornleifafjel. 1886, bls. 7, er haugur Skallagríms í lægð þeirri, sem gengur um þvert Digranes framanvert og sem kallað er *Skallagrímsdalur*. Í minni gamalla manna var dalurinn þakinn rennsljettu graslendi með svo þykkum jarðvegi, að ekki sá á hauginn, er var niður sokkinn, utan steina nokkra, er hlaðið hafði verið saman á toppi hans. Nú er þar allur jarðvegur blásinn burt, svo

ekkert er eftir; þar er allstaðar svartur sandur, víðast blautur, en undir honum rauðleit klöpp, ekki allhörð (»járngrjót«), og er mylsna úr henni víða í sandinum. Í bungunni, sem fyr er getið að jeg gróf í, liggur sundursprunginn blágrýtishryggur ofan á henni og möl og sandur utan um. — Vegurinn til Borgarnesskaupstaðar liggur skáhalt yfir dalinn. Rjett vestan við veginn, í miðjum dalnum, er Skallagrímshaugur. Hann er nú ekki annað enn ávöl bunga úr grjóti og sandi, næstum kringlótt. Laut er ofan í og norður úr, og var hún full af sandi, er jeg kom þar. Lautin sýnir vegsummerkin, að grafið hefir verið í hauginn. Fyrst er sagt, að Húnvetningur einn hafi orðið til þess, enn eigi eru ljósar sagnir um það: þó er helzt í orði, að hann hafi hætt við hálf-gjört verk; hefir það líklega komið af því, að honum hefir ekki þótt árennilegt, að eiga við stein þann hinn mikla, sem lagður hafði verið ofan á steinþróna í haugnum. En svo gróf Andrjes Fjeldsteð óðalsbóndi á Hvítárvöllum hauginn upp 1866. Þeir voru 6 saman, og var einn þeirra Jónas Guðmundsson smiður, bróðurson Þórðar yfirdómara Sveinbjörnssonar. Hann var þá heimamaður á Hvítárvöllum, en býr nú á Ölvaldsstöðum, 65 ára gamall; hann er greindur og vel að sjer og þykir áreiðanlegur maður. Hann skýrði mjer frá haugrofinu svo, sem nú skal greina: Þá er þeir komu að haugnum, leit hann út sem ávöl grjóthrúga og stórt bjarg á kollinum. Þeim tókst að velta því af. Þar undir fundu þeir sporöskjulagaða steinþró, hlaðna úr stórgrýti, og var hún full af sandi og aur. Þóttust þeir ekki mundu geta náð öllu upp úr henni, án þess að rífa hana sjálfa til rýmkunar. Og þar eð þeir bjuggust við, að hún væri gjör af stórgrýti er lengra kæmi niður, þá gjörðu þeir fyrst gröf mikla vestan við þróna, til að velta í grjótinu. Samt köstuðu þeir út steinunum, sem ofan til voru og þeir gátu vel við ráðið. Loks komu þeir niður á móhellu (rauðaberg) og höfðu þá rutt mest öllu grjóti úr þrónni. Á botni hennar fundu þeir mikið af járnryði, en ekkert bein og engan málm annan. Öll var hleðsla þróarinnar úr lagi gengin, og álitu þeir, að hún mundi hafa hrunið, þá er upp úr henni var mokað, þó þeir hefði ekki rifið hana. Lengd hennar frá norðri til suðurs var hjer um bil 4 álnir, en breidd frá austri til vesturs um 3 álnir. (Þeir mældu það ekki nákvæmlega). Ekki sáu þeir með vissu vegsummerki þess, að haugurinn hefði áður verið grafinn eða steinþrónni haggað. Þó voru þeir ekki óhræddir um það. Í skýrslu, er Andrjes sjálfur gaf um þetta haugrof (Skýrsl. forngr. Isl. II. 45—46; Árb. fornleifafjel. 1886, bls. 7), er þess getið, — sem Jónas mundi ekki eftir, — að »á eina hlið haugsins var öðruvísi lagt grjótið og sumir steinar utar«. En mundi þetta eigi geta stafað af þeirri röskun á

hleðslunni í haugnum, sem Egill hefir sjálfur hlotið að gera, er hann »lagði Böðvar niður hjá Skallagrími«. Steinninn mikli, er þeir veltu af haugnum, liggur enn utan í honum við veginn, en gröfin, sem þeir grófu í hauginn, hefir fyllst af foksandi. Ljet jeg moka honum burt, til að sjá leifar þær, er eftir kynnu að vera af steinþrónni. En, því miður, var ekki einu sinni undirstaðan óhreifð, nema lítið eitt austan megin. Er þar mikill skaði orðinn, en tjáir eigi um að tala. Vestur frá haugnum var dálítil grjótbreiða í sandinum, eigi ólík því að geta verið leifar af dys. Þar gróf jeg til, en fann ekki annað enn klofning af hálffúinni hesttönn. Datt mjer í hug, að hestur Skallagríms kynni að vera dysjaður þar, en eigi í haugnum hjá Skallagrími sjálfum. Þó sagan bendi helzt til þess, gæti það verið ónákvæmni. En ekki er farandi út í slíkt, þar sem eigi er við meira að styðjast.

## VI. **Bjarnartöður.**

Svo segír Egla, k. 33. »Skallagrímr . . . . . bauð þeim Birni báðum til sín með alla skipverja sína. Björn þekktist þat. Var þá fluttr farmr af skipinu upp í tún at Borg. Settu þeir þar búðir sínar, en skipit var leitt upp í læk þann er þar verðr. En þar er kallat Bjarnartöður er þeir Björn höfðu búðir. Björn ok þeir skipverjar allir fóru til vistar með Skallagrími«. Menn hefir greint á um, hvar Bjarnartöður muni hafa verið. Sumir ætla, að þær hafi verið í heimatúni á Borg. Þar er rúst ein, fornleg og óglögg, í brekku-brúninni rjett fyrir neðan bæinn, vestur við lækjarbakkann og þar sjer fyrir nausti niður við lækinn. Hefir þess verið getið til, að þessi rúst sje af skála Bjarnar, og að þar hafi verið naustið, er skip hans stóð í. Er þá sjerstaklega litið til þess, að sagan segir: »upp í tún«, og »Bjarnar*töður*« benda líka á *tún*. En hvað sem því líður, þá segir það sig sjálft, að ekki hefði verið gefið sjerstakt örnefni þeim hluta túnsins, er liggur við bæinn sjálfan. Og nausttóftin sýnist að vera smáskips naust frá síðari öldum. Því hafa og aðrir getið til, að Bjarnartöður hafi verið á hól þeim, er verður vestan meginn við lækinn gagnvart bænum. Þar sjer móta fyrir skálatóft, sem þó virðist búið að taka úr grjót allt, — hafi það nokkurt verið. Á þessu máli var Sigurður sál. Vigfússon. Hefir hann álitið, sem líka er rjett, að þó *nú* sje *mói* á hólnum, hafi þar *getað* verið *tún áður*. Og það vill nú svo vel til, að sýna má vott þess, að þar hefir verið ræktað land áður og þá auðvitað *tún*. Þar liggur nefnilega forn garður með hólnum öllum að ofanverðu austan frá læknum vestur og ofan að mýri. Lækurinn skilur hólinn frá

heimatúninu á Borg, og lá því beint við, að gefa aukatúninu í hólnum sjerstakt nafn. — Enginn virðist hafa orðið til að benda S. V. á garð þenna; annars hefði hann getið hans, og án efa talið hann góðan stuðning fyrir skoðun sína, sem hann enda virðist ekki hafa verið í vafa um. Þar eru engar líkur móti, en margar með, sem S. V. hefir bent á. Þó tel jeg þessa eigi hvað minnst verða. — Nú ætlar Einar prófastur Friðgeirsson á Borg að græða tún á hólnum að nýju; Bjarnartöður geta þá aftur farið að bera nafn með rentu. Norðanvert við tóftina sjer fyrir rústaleifum í hólbrekkunni, er liggja ofan að læknum. Hvort það eru leifar af nausti, eða eitthvað annað, er ekki hægt að segja. Þær eru svo óglöggar.

## VII. **Skáli Skallagríms.**

Það mun hafa verið algengast, að fornmenn væri heygðir þar, sem hauginn sá frá karldyrum. Hvað Skallagrímshaug snertir, gat þetta því að eins átt sjer stað, að skálinn hafi staðið vestar enn bærinn stendur nú. Nú hafa og komið fram líkur til þess, að svo hafi verið. Einar prófastur hefir nýlega byggt timburhús með kjall ara undir vestan við bæinn að Borg, og þá er grafið var fyrir kjallaranum, varð fyrir, vestast í honum, mjór og aflangur flór, er virtist hafa steinaraðir á báðum jöðrum. Það er varla efamál, að þetta hafi verið arinn í eldaskála. Eigi varð hjá því komizt, að taka þetta burtu, því annars hefði kjallarinn varla fengið hálfa dýpt. En til allrar hamingju var þetta að eins austurendinn af arninum. Nokkuð, líklega talsvert, er eftir af honum, og er þess að leita undir skúrgólfi vestan við timburhúsið. Tjáir sjera Einar sig fúsan til að leyfa gröft í skúrnum, ef Fornleifafjelagið óskar þess. Hafi nú þetta verið arinn Skallagríms, sem geta má til, þá hefir skáli hans verið vestar, eða að minnsta kosti gengið lengra vestur, enn bærinn er nú; og þá gat það vel átt sjer stað, að haugurinn sæist frá karldyrum.

## VIII. **Vesturtakmörk á landnámi Skallagríms.**

Svo segir Egla, k. 28.: »Þá nam Skallagrímr land milli fjalls ok fjöru, Mýrar allar út til Selalóns ok it efra til Borgarhrauns«. Nafnið *Selalón* er nú týnt; en almennt ætla menn, að það sje *Kaldárós*. Líklegra þykir mjer þó, að *allt hið mikla lón fyrir innan Gömlueyri hafi heitið Selalón* fyrrum. En út í það fellur Kaldá, svo þetta kemur í sama stað niður. *Borgarhraun* ætla flestir að sje

*Eldborgarhraun.* En það hraun brann ekki fyr enn löngu seinna, svo Skallagrímur gat ekki miðað við það. Mun hann því heldur hafa miðað við *Barnaborgarhraun,* austan megin við Kaldá. Það er og nærri fjallinu. Það kemur betur heim við Landnámu, að þar hafi verið vesturtakmörkin á landnámi Skallagríms. Á þessu vakti Helgi verzlunarfulltrúi Jónsson í Borgarnesi eftirtekt mína.

## IX. **Hólmur.**

Inni í miðjum dalnum Hítardal er einstakt fell, sem hvergi er áfast fjöllunum beggja megin dalsins, enda er það ólíkt öllum fjöllum og ásum þar nálægt, og þó víðar sje leitað, að því, að það er alvaxið grænu grasi, og má svo kalla, að *hvergi sjáist steinn* í því. Lítur svo út, sem þar inni í dalnum sje ekki eins rigningasamt og víða annarstaðar. Annars mundu hjer meiri skriður fallnar. Fell þetta er kallað *Hólmurinn.* Fyrir innan Hólminn er láglendi dalsins allt eitt stöðuvatn. Þar kvað vera silungur nægur. Bærinn *Hólmur,* þar sem Björn Hítdælakappi bjó, hefir staðið vestan undir norðvesturhorni fellsins. Þar eru sljettar grundir og lækur kemur þar út úr dýi vestan í fjallshorninu, og rennur vestur um grundina og svo í Hítará. Rústin er skammt suðaustur frá læknum, næstum því fast upp við fellið. Þó er gamall farvegur eftir lækinn bak við rústina, suður og vestur fyrir hana, og kvíslast þar út um grundina. Er að sjá sem vatninu hafi verið veitt á túnið. Rústin er allmikill bali, um 18 faðma langur frá norðvestri til suðausturs. Fyrir tóftum vottar, en þó eigi glöggt. (Læt jeg fylgja uppdrátt af rústinni). Frá norðurhorninu liggur mjó en djúp laut í boga norður og austur að lækjarfarinu. Það hafa verið traðir heim að bænum eða djúpur götutroðningur. Þaðan liggur svo forn vegur inn með fellinu að norðan, inn að vatninu Þaðan mun hann hafa legið vestur að ánni og yfir hana á vaði, nálægt því er hún fellur úr vatninu. Vestast á grundinni við ána eru seltóftir eigi allfáar, og þarf ekki að taka það fram, að þær eru frá síðari tímum og standa ekki í sambandi við bæjarrústina. Neðst í suðausturhorni fellsins er dálítil sljett brekka, mjög fögur. Þar þótti mjer sem vottaði fyrir garðlagi. Hygg jeg að þar hafi verið akur.

## X. **Hítardalur.**

Nú er hinn forni höfuðbólsbragur horfinn frá Hítardal; lítur helzt út fyrir, að hann leggist í eyði áður langt líður. Skógurinn

er horfinn og landið að blása upp, bæði tún og útjörð. Þar er móberg fyrir ofan túnið og hellar í. Einn þeirra er *Sönghellir*; hann er nú nær fullur af sandi. Þar sjer og glöggt fyrir öðrum helli, sem hefir hrunið niður. Hann hefir verið mjög víður og öll framhlið hans opin og hlaðið undir. Því get jeg hans, að mjer kom í hug, að fornmenn mundu hafa kallað hann *Hít*, og kennt við hann dalinn, ána og bæinn. Seinna, — og þó áður enn Bárðarsaga var rituð, — hefir hann þá týnt nafninu og verið kallaður *Hundahellir* en *Hítar*-nafnið orðið að tröllkonuheiti. Þó held jeg þessari getgátu ekki fast fram. Eins vel getur t. a. m. dalurinn haft nafn af landnámskonu, er hafi verið kölluð »Hít« að viðurnefni. Í kirkjugarðinum eru tveir legsteinar: annar yfir sjera Sæmundi Oddssyni, hann er úr marmara; hinn er yfir sjera Ólafi Jónssyni; hann er úr Húsafellssteini eða líkri steintegund. Sæmundarsteinn er við dyr kirkjutóftarinnar og snýr frá landnorðri til útsuðurs; mun hafa átt að færa hann burt, en verið hætt við það.

## XI. **Grettisbæli í Fagraskógsfjalli.**

Eigi gat jeg farið upp á tindinn *Grettisbæli*. En sagt var mjer, að eigi væri torvelt að komast upp á norðurenda hans, þar sem hann er áfastur aðalfjallinu, og að þaðan mætti komast fram á suðurenda hans eftir sljettri berghyllu, er lægi langs með klettabríka-röðinni sem er efst á tindinum, austan undir henni, alla leið fram að gatinu, sem Grettir á að hafa búið í. Þó fann jeg engan, sem sjálfur hafði komið þangað og menn vissu ekki af neinum núlifandi, sem hefði reynt til þess. Gatið sjest vel neðan af veginum, og getur því ekki verið mjög lítið. Hvort hátt er upp í það af berghyllunni, gat enginn sagt mjer. En þó að það kunni að vera nokkuð hátt, gat Grettir vel gjört tröppur í móbergið, þó þær sjáist nú að líkindum ekki, því móbergið máist. Í það var og hægt að negla voðirnar. Jeg efast mjög um, að full ástæða sje til að rengja það, sem sagan segir um þetta.

## XII. **Hoftótt að Hofstöðum í Miklaholtshrepp.**

Þó eigi fari sögur af því, að hof hafi verið á Hofstöðum í Miklaholtshrepp, þá sýnir bæjarnafnið, að svo hefir verið. Þar er líka sýnd »hoftóft« niðri í túninu. Það er ávalur hólbali, hæfilega stór til þess, að geta verið allur ein rúst af stóru hofi, og er ekkert á móti því, að þetta sje hin rjetta hofrúst í raun og veru. En eitt-

hvað annað hefir síðar verið byggt þar ofan á, eftir því sem tóftalögunin lítur út.

## XIII. **Straumfjarðar þingstaður.**

Svo segir í Eyrb. k. 57.: »Þetta sumar tók Þorsteinn úr Hafíjarðarey Rauðmelingagoðorð ór Þórsnessþingi . . . . . . . tóku þeir frændr þá upp þing í Straumfirði ok höfðu lengi síðan«. Þar sem Straumfjarðará fellur út í fjörðinn, eru klappir báðum megin við mynni hennar. Klöppin að vestanverðu er meiri, bæði að hæð og ummáli. Hún heitir *Búðahamar*. Er þar hamar, nokkuð hár, austan megin og sunnan, eða við ána og sjóinn, en afhallandi er til vesturs, þar sem hamarinn er landfastur, og til norðurs, þar sem hann liggur að lóni, eða litlum vogi, er gengur vestur úr ánni. — Hamarinn er grasi vaxinn austan og vestan til; en all-breitt belti yfir um hann miðjan er blásinn melur. Á hamrinum eru 7 búðatóftir, flestar nokkurn veginn glöggar, og hefir S. V. lýst þeim í Árbók fornleifafjelagsins 1893 bls. 66—67, og hefi jeg ekkert við þá lýsingu að athuga, nema að jeg hygg að á bls. 66. línu 13. neðan frá, sje ritvilla: »vestur« fyrir: norðvestr, sem lítið gjörir til. S. V. hefir merkt búðatóftirnar með svigatölum (1—7) og fylgi jeg sömu röð á uppdrætti þeim, er jeg læt fylgja. Auk búðatóftanna sjást leifar af mannvirki nokkru (8) nærri norðvesturhorni hamarsins. Lögun á því er ekki hægt að ákveða, því svo er að sjá, sem úr því hafi verið tekið grjót, líklega í vörðu (9), sem er skammt þaðan. Mannvirki þetta gæti verið leifar af dómhring. Nálægt miðju hins blásna beltis er lítill hólmi óblásinn (10); myndar hann eins og upphækkun og kann að vera að það sjeu leifar af rúst. Þó er jeg í efa um það. Norður við veginn eru 3 naustatóftir: eru tvær af þeim fyrir vestan hið blásna belti, og eru þær saman (11—12), en hin þriðja einstök fyrir austan það (13). Hún er stærst: um 7 faðma löng; hin vestasta um 6 faðmar; en sú, sem hjá henni er, er minnst og óglöggust og mældi jeg hana ekki. Eins og S. V. getur um er undan búðunum 6 og 7 *klettsnös* út úr hamrinum *með gati í gegnum* (14). Hún er út úr austur horni hamarsins við árósinn, þar sem hann er einna dýpstur. Ekki þori jeg að fullyrða, að gatið sje gjört af mönnum; en sje það ekki, þá er það sannarlega einkennilegt og sjaldgæft náttúrusmíði. Og hvernig sem það er til orðið, er varla vafamál, að það hefir verið notað til að festa skip við. Það er á hentugum stað til þess. Og sögur geta um kaupskipaferðir í Straumfjarðarós: Þannig segir Eyrb. kap. 39.:

»Þorleifr kimbi tók sér fari um sumarit með kaupmönnum þeim er bjuggust í Straumfirði«. Eigi vil jeg fara út í það, að skifta búðunum í *verzlunarbúðir* og *þingbúðir*. Þykir mjer eigi ólíklegt, að stundum að minnsta kosti hafi sama búðartóftin verið notuð til hvors tveggja sama sumarið, þar eð vorþing mun oftast hafa verið afstaðið áður enn kaupskip komu. Um þetta mun hafa farið eftir samkomulagi í hvert sinn.

## XIV. Þórsness þingstaður.

Við rannsókn S. V. á Þórsness þingstað (Árb. fornl.fjel. 1882, bls. 102—105) hefi jeg sárlitlu að bæta. Jeg er honum samdóma um, að þingið muni hafa verið í *miðtanganum* (Þingvallatanga) og þar muni dómar hafa fram farið. Þykir mjer langlíklegast, að dómhringurinn hafi staðið á odda nessins (eða tangans): Þar er hærra og fegra en annarsstaðar á nesinu og þar er *mjög afskekkt*, því á þrjá vegu liggur þar sjór að og bratt upp að ganga úr fjörunni, en á fjórða veginn til suðurs, er nesið mjórra en oddinn sjálfur, svo það má næstum kalla *eið*, er samtengir hann við það. Hjer hefir því verið mjög auðvelt, bæði að varna því að dóminum yrði hleypt upp, og líka því, að mótpartur gæti komizt að dóminum til að hafa fram mál sitt. Til þess kom og þá er vandamenn Styrs vörnuðu Þorsteini úr Haffjarðarey að hafa mál sín fram. (Eyrb. k. 56.): þeir »vápnaðust ok gengu á milli dóms ok Rauðmelinga, er þeir vildu ganga at dóminum«. Það er eins og hjer megi lesa það milli línanna, að dómurinn hafi ekki staðið á víðum velli, heldur hafi á einn veg mátt að honum ganga. Nú er oddi nessins kallaður *Húsnes;* stendur á honum hústóft frá þessari öld, hlaðin úr grjóti og svo fyrirferðar mikil, að eigi er rúm fyrir meira. Þó vottar fyrir bogamyndaðri, fornlegri rústarbrún útundan suðurhliðveggnum. Þegar jeg sá þetta, spurði jeg sjálfan mig, hvort það mundi ekki vera brún dómhringsins, sem hjer sæist á? En hvort sem það er eða ekki, tel jeg víst að hann hafi verið á þessum stað, og þá líka *Þórssteinn* sá, er sögur nefna (Lndn. II. 11; Eyrb. k. 10.). »Blótsteinninn«, sem nú er sýndur suðaustur frá þingstaðnum, er naumast hinn upprunalegi *Þórssteinn.* Það er ísaldar hnöllungur, hálfflatur ofan og hefir ekkert merkilegt við sig. Kringum hann vottar ekki fyrir neinum hring; enda er alls ekki líklegt, að dómhringurinn hafi verið á þeim stað: þar er mýrlendi og fremur ófagurt. Mjer þykir líklegast til getið, að þá er búið var að eyðileggja dómhringinn og hinn rjetta *Þórsstein*, hafi, er fráleið, nafnið verið fært yfir á þenna stein, af því hann er sjerstakur, og ólíkur

öðrum steinum þar nærri. Uppi á *Þingvallaborg* ímynda jeg mjer helzt að verið hafi *skemmtihús*. Þar er eigi hentugur staður fyrir fjárrjett eða neitt þess konar. En dómhring líkist tóftin alls ekki.

## XV. Bólstaður við Vaðilshöfða.

Þar sem Úlfarsfellsá rennur út í Álftafjörð, hefir hún fyllt af árburði allstóra vík, sem verið hefir milli *Úlfarsfells* og *Vaðilshöfða;* hefir þar myndast landauki (aurland, »delta«), sem hefir gróið upp og verið orðið byggilegt þá er landið byggðist. Þar er flatlendi, dálítið bunguvaxið, eins og aurlönd oftast eru, og hallar því ofan að sjónum Uppgrónir farvegir eftir ána sjást þar hjer og hvar; en flestir munu þeir eldri en síðan landið byggðist Síðan mun áin jafnaðarlega hafa runnið við annanhvorn jaðar aurlandsins. Nú rennur hún með austurjaðri þess út hjá *Vaðilshöfða.* Bærinn *Bólstaður*, þar sem Arnkell goði bjó, hefir staðið á þessu aurlandi. Rústirnar eru ofan til á miðri bungunni. Eru tvær þeirra auðsæastar, og þó eigi glöggar: önnur þeirra, sú er ofar er, lítur út fyrir að vera bæjarrústin, en hin neðri gæti verið fjóss og hlöðu rúst. Vottur sjest þar fleiri rústa. Eigi hreifði jeg við rústum þessum. Var það hvorttveggja að þá var óveðratíð, enda verkamenn ofáanlegir um sláttinn, og á hinn bóginn áleit jeg eigi byrjandi á uppgrefti þar, nema bæði væri tími og ástæður til að gjöra það til hlítar og með nógri vandvirkni, þar eð hjer er um áreiðanlega *söguldarrúst* að ræða. Haugur Arnkels er niður við sjó, undan rústunum. Sjór brýtur hann nú árlega, svo að hann er varla meir en hálfur eftir.

## XVI. Hoftóft í Stóra-Langadal.

Það má sjá af Lndn. II. 13 og 14 og Eyrb. k. 9 og 44, að Áslákur í Langadal hefir verið höfðingi. Hann átti dóttur Þórðar Gellis, og þarf þá eigi fleira að telja. En svo kom hann oftar en einu sinni fram með liðsstyrk og hafði áhrif á málaferli manna. Hann hefir því átt mannaforráð; verið goðorðsmaður, og því án efa haft hof á bæ sínum. Enda er hoftóft sýnd í Langadal, þar fyrir ofan túnið. En því miður er hún nú mestöll horfin undir skriðu, sem árlega rennur þar á, meira og minna. Það, sem enn sjest, er hálfhringmynduð girðing, nál. 6 fðm. í þvermál, og er það suðurendi byggingarinnar. Norðurendinn með goðastúkunni, er undir skriðunni, og þetta, sem enn sjest, hverfur að líkindum bráðum. Það er auðsjeð á þessu broti, að hof þetta hefir engin smábygging

verið. Víðar hafa skriður fallið kringum bæinn í Langadal; þær hafa minnkað túnið að miklum mun. Á hinn forna túngarð sjest hjer og hvar, og má af honum marka stærð túnsins, er verið hefir. Það hefir verið ákaflega stórt til forna. Suður í túninu er fornleg girðing, allt að 200 □ fðm á stærð. Hún heitir *Hvanngarður*. Hefir hvönn án efa verið ræktuð þar til manneldis. Þetta, o. fl., sýnir, að hjer var stunduð matjurtarækt til forna.

## XVII. Smiðjusteinn að Dunki.

Munnmæli segja, að *Gauti* landnámsmaður á *Gautastöðum* (í Hörðudalshreppi) hafi haft smiðju sína að Dunki, og hafi sá bær nafn af *dynkjum* þeim, er urðu er járnið var slegið. Líklegra þykir mjer þó, að bæjarnafnið sje leitt af keltnesku mannsnafni, t. a. m. Duncan=Dungaðr, og hafi upphaflega heitið Dungaðarstaðir. En hvað sem um það er þá er víst, að hjer hefir járnsmiður búið. Það sýnir »smiðjusteinn« svo nefndur, þar í túninu. Ofan í hann miðjan er ferhyrnd hola fyrir steðjafótinn, og er hún 3¼ þuml. að dýpt og 3 þ. í þvermál. Útundir brún á steininum er önnur hola, lítil og aflöng, 2 þ. á dýpt, 1½ þ. á lengd og ¾ þ. á breidd; á hún að hafa verið fyrir saumhöggið, og er það líklegt. Steinninn var að mestu sokkinn í jörð, en var nú grafinn upp og stærð hans mæld Er hann 2 al. langur, 1½ al. breiður og um 1½ al. á hæð. Utan með honum var alstaðar dálítið af viðarkolaösku, en engin gjall- eða sindurstykki. Hjer hefir því ekki verið rauðablástur, heldur smíðað úr tilbúnu járni. Engin tóft var utan um steininn, eða neinstaðar þar nærri, og lítur svo út, sem úti hafi verið smíðað. Virðist það fremur benda til fornaldar en síðari alda.

---

# Viðaukar.

## I. Hoftóft o. fl. í Bersatungu.

Í Árb. fornlfj. 1882, bls. 67. getur S. V. um hoftóft í Bersatungu. Þá tóft skoðaði jeg í sumar. Hún er á ávölum, fallegum hól neðst í túninu austan til. Afhúsið er vestan við aðalhúsið og engar dyr á milli; en dyrnar hvorar tveggja á norður hliðinni og að eins veggurinn milli þeirra. Mjer mældist hún, eins og S. V. 17—18 al. löng og um 12 al. breið. Gjörði jeg uppdrátt af henni, sem jeg læt hjer fylgja. Neðan undir hólnum stendur steinn upp

úr jörðu og er hann kallaður »*Blótsteinn*«, Á þá hlið hans, sem að hofinu veit, stendur hvöss hellubrún upp með honum, jafn há honum eða hærri. Þar er mýrlent fyrir neðan. Vestanvið hólinn er stór lág; en fyrir vestan hana gengur fram annar hóll, neðst í túninu vestan til. Framan í honum er brekka, og í henni girðing, sem frá ómunatíð hefir verið bannað að slá; því þetta var akur, sem í heiðni var helgaður goðunum og þar fyrir fylgdi honum sú forneskja, að eigi var óhætt að slá hann. Bóndinn sem nú býr i Bersatungu, Andrjes smiður Brynjúlfsson, sagðist vel þora að slá hann, en eigi vilja gjöra það, þar eð munnmælin um helgi akurs ins hjeldist fremur í minni ef hann væri látinn ósleginn. Betur að sá hugsunarháttur væri almennur!

## II. Hoftóft(?) á Ásbjarnarstöðum.

Eins og S. V. getur um í Árb. fornl. fjel. 1884—85 bls. 133, er sýnd hoftóft á Ásbjarnarstöðum í Stafholtstungum. Sú tóft er norðaustur í túninu, rjett við heimreiðargötuna að bænum. Hún er nokkuð aflöng og liggur lengd hennar nærfelt frá norðvestri til suðausturs og er um 7 faðma, en breiddin er um 5 faðma; veggir eru mældir með. Dyr eru á suðaustur hliðvegg nær norður-horninu; snúa þær að götunni. Engin afhústóft sjest þar. Við suðaust ur-endann er stórþýfi, — eins og víðar þar, — og eins hafði verið við norðvestur-endann; en þar er nú búið að sljetta og varð ekki vart við neina hleðslu. Þegar á allt þetta er litið, bæði afstöðu tóftarinnar frá bænum og frá götunni, stefnu tóftarinnar, og einkum það að afhúsið vantar, þá sýnist mjer það efamál, að þetta sje hoftóft í raun og veru. Aftur á móti er þar suður í túninu, andspænis bænum og langt frá götunni, önnur tóft, sem raunar er mjög óglögg, en stefnir þó norður og suður og virðist hafa afhús, er snýr dyrum að bænum. Hefði mjer verið sagt, að þetta væri hoftóft, þá hefði mjer þótt það trúlegra. Og sízt er fyrir að synja, að *hofs*-nafnið hafi einhverntíma á öldum færzt af hinni óglöggu rúst yfir á hina glöggu. En eins og nærri má geta fullyrði jeg ekki neitt um þetta.

## III. »Haugur(?)« í Hvammi.

Í Árb. fornl.fjel. 1895 bls. 21 er þess getið að byrjað hafi verið á grepti í upphækkun þá í túninu í Hvammi sem ætlað hefir verið að væri haugur Þórðar Gellis. Nú er þessum uppgrefti

lokið, og reyndist þetta enginn haugur, heldur uppgróin malarbrúga (frá ísaldartímanum?).

---

# Fyrirsát á Skógarströnd.

Fyrir innan *Leiti* á Skógarströnd liggur alfaravegurinn um skarð milli tveggja klapparása. Veginum hallar norðurhalt austur úr skarðinu og mjókkar það niður eftir; neðst er það eigi víðara en hjer um bil fyrir tvo klyfjahesta. Hefir þar verið hentugur staður til fyrirsáturs í fyrri daga. Enda heitir þessi staður »*Fyrirsátið*«: Er sú saga til þess, að þá er synir Jóns biskups Arasonar ætluðu að handtaka Daða í Snóksdal (1549), frjettu þeir á Staðastað að hann væri vestur í Rifi. Þar ætluðu þeir að taka hann; en til vara, ef hann kynni að sleppa, settu þeir menn til að sitja fyrir honum á Skógarströnd og var þessi staður valinn til þess. Spenntu fyrirsátsmenn þrjá strengi yfir þvert skarðið, er skyldu hindra för Daða, svo hann slyppi eigi úr höndum þeirra. Daða kom njósn af ferð biskupssona og reið hann sem skjótast heimleiðis. Hann reið Markúsar-Brún. Það var um nótt er hann reíð inn Skógarströnd. Hann reið við bjöllubeizli; en af því hann grunaði að fyrir sjer mundi setið, vildi hann eigi að beizlið hringdi, tróð hann því mosa í bjölluna (eða bjöllurnar). Hann hjelt á brugðnum hnífi. Það kom honum í góðar þarfir, er hann kom í skarðið, því hann skar sundur fyrsta og annan strenginn, án þess að hika, og Markúsar-Brúnn henti sig yfir hinn þriðja. Kemur það vel heim við landslagið, að austasti strengurinn hafi verið lægstur. Í þessu komu fyrirsátsmenn að, en urðu of seinir, því Daði var þegar sloppinn. Einn spurði í fáti: »Fór Daði þar?« Annar svaraði: »Ekki veit jeg hvort Daði fór þar; en þar fór Markúsar-Brúnn«. Fóru þeir svo búnir þaðan. Þetta er almenn sögn á Skógarströnd og víðar þar vestra. Er hún engan vegin ósennileg, og er vert að láta hana ekki týnast.

* * *

Fyrir fáum árum fannst í glufu einni í »Fyrirsátinu« stór *bróklindahnappur* úr kopar, fallega skreyttur með rósaverki. Hann hefir án efa verið eign meiriháttar manns. Er ef til vill hugsanlegt að hann hafi hrokkið af bróklinda Daða þá er Brúnn hljóp yfir strenginn, og þá lent í glufunni. Hnapp þenna gaf Daníel Jónasson í Fremri-Vífilsdal forngripasafninu í fyrra (1895).

*Br. J.*

# Fjall í Olfusi.

Sunnan undir suðausturhorni Íngólfsfjalls hefir fyrrum staðið bær og heitið *Fjall.* Er þeirrar jarðar getið í Biskupasögum, 2. bindi, á 3 stöðum: Á bls. 298 er þess getið, að *Erlingur Gíslason* hafi átt *Fjall í Ölfusi,* og að *Þorsteinn* »yngri«, son hans, hafi búið þar og átt *Halldóru Pálsdóttur, Eyjólfssonar* frá *Hjalla* og *Ásdísar Pálsdóttur* systur *Ögmundar* biskups. Á bls. 661 segir, að *Eydís Helgadóttir,* móðursystir *Odds* biskups, hafi verið í *Fjalli* 1604 og átt *Jón Ásgrímsson* er þar bjó fyrst, en varð eftir það bryti í Skálholti; en á bls. 675 segir um þenna sama *Jón* mann *Eydísar*: »Hann átti Hóla í Öxnadal og bjó þar fyrst. Eftir það varð hann bryti í Skálholti og síðan í margt ár ráðsmaður fyrir *Fjalls* búi«. Hefir *Fjall* þá verið orðið eign *Skálholtsstaðar.* Af jarðabók *Árna Magnússonar* sjest, að jörðinni *Fjalli* hefir verið skift í 4 býli: *Helli, Laugarbakka, Fossnes* og *Fjall* sjálft. Af þessum býlum hefir *Fossnes* þó verið stærst, nfl. 10 hndr., en hvert hinna $6^2/_3$ hndr., því að öll jörðin til samans var 30 hndr. Af þessu sjest, að þá hefir heimajörðin *Fjall* verið komin í niðurlægingu, er jarðabókin var samin. Munu því mest hafa valdið skriðurennsli á túnið. Túnstæðið hefir upphaflega verið uppgróin skriðubunga, mynduð af gili, sem þar er uppundan í fjallinu. Það heitir *Branddalsgil,* og hefir nafn af lítilli dalkvos, er *Branddalur* heitir, sem þar er uppi í gilinu, en sjest ekki fyr en að er komið. *Branddalur* er enn grasi vaxinn; annars er gilið, og hlíðin öll, nú eintóm skriða. Er líklegast að nafnið sje dregið af kolabröndum og að þar hafi verið kol brennd meðan fjallshlíðin var skógi vaxin. Og að svo hafi verið þarf ekki að efa, því skriðubungan hefði aldrei fengið frið til að gróa upp, ef hlíðin og gilið hefði ekki áður verið orðið skógi vaxið og viðarrætur varnað skriðum. Hefir þá verið fagurt á þessum stað. Enda segja munnmæli að Ingólfur hafi dvalið hjer veturinn sem hann var undir Ingólfsfjalli. (Þó nefnir önnur sögn til þess »*Hólstaði*«; það er grjótmelur vestan undir fjallinu, skammt frá *Hvammi*). Með byggingu landsins hófst eyðing skóganna, og með tímanum hefir mönnum tekizt að gjöreyða þeim víðast hvar, og einnig í hlíðinni fyrir ofan *Fjall.* En þá, þegar gilið var orðið skóglaust, hefir skriðurennslið úr því magnast að nýju. Það hefir spillt túninu og eyðilagt bæinn. Og enn heldur það áfram að hækka bunguna smátt og smátt; enda er hún nú að miklu leyti grjóti þakin, nema austan til. Þar er grasflöt, sem enn heitir *Fjallstún.* Á henni eru rústir bæjarins. Er of lítið gjört úr þeim í munnmælasögunni: »*Sængurkonusteinn*« í »*Huld*« (1. hefti bls. 52.),

því allvel sjer fyrir bæjarrústinni, og einnig fyrir fjóss- og heygarðsrúst, sem er á austurjaðri bungunnar, efst á grasflötinni nær upp við fjallið. Bæjarrústin er dálítið sunnar og neðar. Bærinn hefir snúið framhliðinni mót suðaustri; en í fljótu áliti virðist þó, þegar á rústina er litið alla í einu, að hún snúi mót suðri. En það kemur af því, að byggingar hafa verið fram á hlaðinu, sem austantil ganga lengst fram; myndast þar næstum eins og lítil hólbrekka af gamalli hleðslu. Sögn er, að bænahús hafi verið í *Fjalli;* svo sagði mjer *Jón* bóndi *Árnason í Alviðru*, fróður maður og vel að sjer. Hefir þá bænhúsið án efa verið fram á hlaðinu, en hafi það verið austast og fremst, — sem mjer þykir liggja næst að ætla, — þá hefir annað hús verið vestar á hlaðinu. Bæjartóftin snýr hliðinni fram, og er framhúsið nálægt 10 faðma langt frá norðaustri til suðvesturs. Dyr eru á framhliðinni vestan til miðri. Beint inn af þeim er inngangur í bakhús, er liggur samhliða hinu, og eru dyrnar á miðri framhlið þess; það er rúml. 3 faðma langt. Er sennilegt að það hafi upp á síðkastið verið baðstofan, en hitt framhýsi. Við báða enda bakhússins virðast vera auð svæði, sem svara mundi rúmi fyrir dálítil hús; en þessi svæði eru þó innilokuð af garði, sem staðið hefir fyrir allri bakhlið bæjarins, og myndað þannig »húsagarð«, — sem nú er kallað og tíðkast hefir á seinni öldum. Sín tóft er við hvorn enda frambæjartóftarinnar, og snúa þær dyrum fram á hlaðið; getur verið að það hafi verið skemma og smiðja. Vestan í húsagarðinum sjer einnig fyrir lítilli tóft. Vegurinn hefir legið um hlaðið, milli bæjarins og bænhússins. Hefir það haldist eptir að bærinn lagðist í eyði, því þar eru uppgrónar götur; en nú liggur vegurinn á bak við rústina. Fjósið hefir snúið nokkuð meir til austurs en bærinn. Stærð þess er ekki hægt að ákveða, því svo er að sjá, sem það hafi verið hlaðið sundur að innanverðu, — eða það hefir verið stytt, er kýr hafa fækkað. Við vestri hlið þess er ein tóft, en við eystri hliðina tvær, líklega geldneyta- og reiðhestahús. Þar á bak við er heygarðurinn. Heystæðin eru þrjú: eru tvö þeirra næstum 10 faðm. löng en hið þriðja nær hálfu styttra, því þar gengur fjóstóftin inn í garðinn. Hefir hjer verið gott til heyafla og tún eigi allítið meðan bungan var í friði fyrir skriðum. Líklegra er, að þær hafi valdið eyðileggingunni smátt og smátt heldur en allt í einu; en auðvitað er, að loksins hefir eitt skriðuhlaup riðið baggamuninn. Bærinn hefir staðið fram á átjándu öld. Eftir að hann lagðist í eyði, lagðist landið til *Hellis* og *Laugarbakka*, svo að nú eru landamerki þeirra jarða um *Fjallstún*. *Fossnes* er sagt að byggt hafi verið fram að, eða fram yfir, 1800, og að kerling ein hafi búið þar síðast. Rúst þess bæjar sjest

skammt frá Hvítá litlu ofar en á móts við bæinn á Selforsi. Það er nú í *Hellis* landi, því landið lagðist til þeirrar jarðar; var þar stekkur frá *Helli* um hríð, en er nú aflagður fyrir löngu. Hefir það eigi verið sjaldgæft, að gjöra stekki úr rústum eyðibæja, til að halda við rækt í túninu. *Br. J.*

---

# Athugasemdir

## um Þjórsárdal.

Eins og ritgjörð mín »um Þjórsárdal« (Árb. fornl.fjel. 1884—85) ber með sjer, er það að eins tilgáta mín að »Lóþrælar«, sem jeg hafði heyrt nefnda, hafi staðið suðvestanundir Stangarfjalli og verið hjáleigur frá Stöng. Þetta hefir ekki verið rjett til getið. Í ísl. fornbrjefasafni (II. 885) eru taldar nokkrar eyðijarðir í Þjórsárdal, þar á meðal *Ljeþrælar tveir í Reykholti.* Jeg hefi nú ekki getað fundið vott til nema *eins bæjar* í Reykholti, svo jeg sje viss um; en þó hefi jeg, eftir að jeg las þetta, fundið á öðrum stað fáeina hraunsteina svo hátt frá láglendi, að þeir hafa án efa verið færðir þangað af mönnum, og getur verið, að það sjeu leifarnar af hinum Ljeþrælnum. Þær geta líka verið sandorpnar. — Á sama stað nefnir fornbrjefasafnið *Lepparstaðaskóg.* En uppi í Stangarfjalli, uppundan rústum þeim, sem jeg gat til að hefði verið Lóþrælar, eru grasbrekkur sundurskornar af giljum, og heitir þar enn í dag: »í Leppum«. Áður en jeg sá fornbrjefasafnið, hjelt jeg að þetta örnefni væri myndað af landslagi. En nú er jeg í engum efa um að það er eftirleifar af bæjarnafninu *Lepparsstaðir.* Syðri bærinn, er jeg hugði Lóþræl, hefir því án efa heitið *Lepparsstaðir.* En hvort þeir hafa báðir heitið svo, eða hinn nyrðri (vestri) hefir heitið eitthvað annað, er ekki hægt að segja.

Nýlega hefir komið í ljós rúst suðaustan í Stangarfjalli, langt fyrir innan Stöng, upp frá Bolagróf innanverðri. Hún er vel 6 faðma löng og nál. 11 feta breið, og eru dyr á suðusturenda. Eftir útliti að dæma þætti mjer líklegast, að það væri fjóstóft og er þá bæjarrústin óuppblásin þar nærri, sem vel getur verið, þó ekki sjáist þess merki. Rúst þessi er full af hvítum vikri, og er líklegt að neðsti hluti veggjanna standi, og væri ef til vill ómaksins vert að grafa hana út.

Nýlega er líka blásin upp *smiðjurúst* inn í Sandafelli. Það er engin eiginleg tóft, en sindurhrúga mikil og eldlitaðir steinar í

hrúgu, líklega úr *afli*. Þar hafði og vèrið *kolahola*; það eru 4 hellur reistar svo upp, að af því verður ferhyrnd hola. Standa 3 hellurnar, en hin 4. lá fallin; þar í var lítið eitt af kolum. — Samskonar ferhyrnda geymsluholu úr hellum fann Þorsteinn Erlingsson, er hann gróf út Lambhöfða-rústina sumarið 1895.

Það kom í ljós, er Þ. E. gróf út rústirnar á *Sámsstöðum* og *Ásláksstungu innri*, að þar sem jeg hafði ætlað vera *dyr* vestantil á suðurhliðveggjunum, voru að eins *skörð*, en *engar dyr*. En austantil á þeim sömu hliðveggjum virtust dyrnar hafa verið þar sem jeg hafði talið eystri dyrnar. Það sjest af þessu, að bæirnir hafa *ekki* ávallt verið *tvídyraðir*, þó hvert húsið gengi af enda annars.

Þess skal getið, að í Lambhöfða rústinni fann Þ. E. grátt efni, er leit út fyrir að vera leifar af *skyri*. Nægir að drepa á það hjer; sjálfur mun hann á sínum tíma skýra frá rannsóknum sínum bæði í Þjórsárdal og annarsstaðar.

Þar eð jeg hefi minnst á Þorstein Erlingsson, og þar eð jeg var með honum við rannsóknirnar í Þjórsárdalnum, finn jeg mjer skylt að taka það fram, að hann var mjög vandvirkur í rannsóknum sínum; mæling hans á rústunum var nákvæmari en jeg hafði getað mælt þær, en þó skakkaði þar mjög litlu. Er jeg honum þakklátur fyrir not þau, er jeg hafði af rannsóknum hans, mínum rannsóknum til stuðnings. Br. J.

# Kjallaragröfin

### á Skriðu í Fljótsdal í Múlaþingi.



Eins og kunnugt er hefir Skriða verið höfuðból um margar aldir. Þar var ábótaklaustur frá 1493—1552 og seinna var þar sýslu mannssetur. Bænahús og grafreitur hjelst þar lengi fram eftir; þar liggur sýslumaður Wíum grafinn og Jón »flak« og sjást ennþá skýrt leiði þeirra beggja.

Halldór sýslunefndarmaður Benediktsson, er nú í 16 ár hefir búið á Skriðu, keypti jörðina fyrir skömmu af landssjóði, byggði þar rúmgóðan og reisulegan bæ og svo vel skipaðann, að hann er hafður til fyrirmyndar í Hjeraði.

Allvíða í Upphjeraði hafa smámsaman myndast stórar rústir í kringum bæina, sem stafar af því að loftslag er þar svo þurt og jarðvegur svo harður og þjettur, að hvorki síga þær i jörðu nje fúna. Fæstir hafa verið þeir framtaksmenn að aka rofinu burt, er byggt hefir verið upp að nýju, og hafa því myndast hólar, sem bæirnir eru meira og minna grafnir inn í. Þannig var ástatt á Skriðu, er Halldór kom þangað, ljet hann það vera eitt sitt fyrsta verk að ráðast á rústirnar og koma þeim frá augunum, einkanlega þeim, er skyggðu á hina yndislegu útsjón yfir Lagarfljót og hjeraðið.

Til að vanda bæ sinn sem bezt og gjöra hann sem varanlegastan ljet Halldór sjer ekki nægja að hlaða veggina eins og áður var vani ofan á rústina, heldur ljet hann grafa niður á fastan grundvöll, sem þar er smágrýtt skriðumöl, og taka þar undirstöður að öllum veggjum. Í vor, er Guðmundur Þorfinnsson vinnumaður hans var að grafa niður fyrir væntanlegum búrvegg, rekur hann sig rúmum 2 álnum fyrir neðan eldhúsgólfið, sem áður var, á rauða-

viðardrumba og borðstubba; undir þeim var gulhvítt, límkennt, rakt jarðlag, er var hjerumbil 3 stungur á þykkt áður kom á fasta möl. Neðsta lagið af rústinni, sem lá ofan að trjávið þessum var blandað smáum viðarkolamolum og ösku, án þess að þar væri reglulegt öskulag. — Jeg fjekk þá leyfi hjá Halldóri bónda, að láta Guðmund rannsaka þetta nákvæmar, og fann hjer stóra gryfju eða gröf fast niðri á malarlaginu. Vil jeg nú leyfa mjer að lýsa gröf þessari og því, er stóð í sambandi við hana, bæði því, sem við Guðmundur fundum og því, sem Halldór skýrði mjer frá að áður hefði fundist, án þess að jeg fari að rekja þau einstök atvik sem að því lágu.

Gröfin sjálf er c. 10 fet á annan veginn og 11 fet á hinn; hún snýr þannig að hornin vita hjerumbil til höfuðáttanna. Dýptin var rúm 3 fet. 5 rauðaviðardrumbar voru í gröfinni og stóðu upp og ofan 3 sinn í hvoru horni (v. s. og a.) — norðurhornið gróf jeg ekki upp — og 2 með miðjum hliðum sv. og na., ofan á þessum tveimur lá þvertrje og út af því lágu fjalir fúnar mjög, svo ekki varð ákveðin þykkt þeirra, en þær hafa varla verið undir 1 þml. — Trjen hjeldu sjer betur og voru þau yfir kvartil í þvermál, sívöl líkt og rekaviðardrumbar.

Gröfin er vandlega hlaðin úr óhöggnu grjóti, límd með mósteypu og sljettuð innan með henni; stendur hleðslan alveg óhögguð að því er sjeð varð. Botninn í gröfinni er hörð smáskriða og virtist leirlag eða mólag ofan á því. Úr suður horni grafarinnar lá lokræsi mikið og hafði orðið vart við það undir bænum áður, en hversu langt það er veit jeg ekki því jeg gróf ekki fyrir enda þess, en yfir 20 álnir mun það vera. Lokræsið var upphlaðið og lagt með hellum bæði undir og yfir; það var frá 1—2 fet á dýpt og alveg tómt og þurrt. Hallinn var ekki meir en hæfilegur vatnshalli.

Allur suðaustur helmingur grafarinnar, sem jeg gróf upp, var fullur af gulhvítu efni; það var blautt, seigt og límkennt, en varð stökkt og gisið er það þornaði. Austanvert við stoðina undir miðri suðvesturhliðinni var beinarusl. Þar voru bæði kindabein og fiskbein og bein af stórgripum, en fremur mun það hafa fallið ofan í en legið í gröfinni, því undir því og laust við það var gulhvíta efnið. — Austanvert við miðja gröfina fannst steinsleif undir fjölunum, en ofan á fjölunum fundust smátægjur af vaðmáli.

Það virðist liggja nærri að lesa sjer í eyðurnar með gröf þessa. Bærinn hefir brunnið, búrið hrapað niður og kjallarinn hefir aldrei verið grafinn upp og verið því óhaggaður allt til þess að Guðmundur gróf hann upp. En hvaða matur hefir verið í kjallaranum? Það hefir verið skyr, sem gjört hefir verið upp í gröf þessari; hún tekur c. 70—80 lagar-

tunnur. Þó ekki væri annað, finnst mjer steinsleifin ein nægileg sönnun þess að svo hafi verið. Að skyrið hafi verið gjört upp í gröfinni finnst mjer mega ráða af því, að hvergi fannst neitt trjákyns í gröfinni annað en staurarnir og borðin ofan yfir henni, og svo ekki hvað sízt þetta volduga lokræsi, sem haft hefir verið til þess að hleypa vatninu út, þegar gröfin hefir verið hreinsuð um fráfærurnar. Að endingu skal jeg geta þess, að i hitt eð fyrra fannst eldstó og eldhúss gaflhlað á líkri dýpt og yfirborð grafarinnar, og voru þar einnig viðarkol og aska, sem bar vott um bruna, en af því eldstó þessi liggur c. 20 áln. frá gröfinni, er óhugsandi að eldhús þetta hafi staðið í sambandi við búr þetta, svo annaðhvort er, að þau eru sitt frá hvorum tíma og bærinn brunnið tvisvar, eða það sem sennilegra er, að búrið hafi verið útibúr, sem matur var geymdur í, því það var algengt í fornöld.

p. t. Reykjavík, í ágúst 1896.

*Jón Jónsson.*

# Hin síðasta ‚útbrota' kirkja á Íslandi.



Framyfir aldamótin 1800 voru flestar kirkjur hjer á landi með torfveggjum og torfþaki, og grindin í þeim með því byggingarlagi, sem kallað var »útbrotabygging«. En aðaleinkenni þess byggingarlags var það, að *skot* voru með báðum veggjum utanmeð aðalgrindinni, og voru þau kölluð »útbrot«. Þykir eigi ólíklegt, að þau hafi verið nokkurskonar eftirleyfar af byggingarlagi *skálanna* hjá fornmönnum. Á þessari öld var útbrotabyggingin lögð niður ásamt torfkirkjunum, eða jafnvel á undan þeim, því torfkirkjur, er síðast voru byggðar, höfðu ekki það byggingarlag. Hin síðasta útbrotakirkja hjer á landi mun hafa verið Stóra-Núpskirkja í Árnessprófastsdæmi. Hún var rifin 1876 og byggð aftur timburkirkja. Mun því »útbrotabyggingin« eigi vera framar til hjer á landi. Álít jeg því vel við eiga, að forngripasafnið eigi eftirmynd þess byggingarlags, og að lýsing þess verði prentuð í Árbók fornleyfafjelagsins. Og þar eð jeg var vel kunnugur »útbrotakirkjunni« á Stóra-Núpi, veitti henni nákvæma eptirtekt og hygg að jeg muni nokkurnveginn rjett, hvernig hún var, þó liðin sjeu næstum 20 ár síðan hún var rifin, þá vil jeg nú rita lýsingu hennar.

Eins og á öðrum »útbrotakirkjum« var tóftin víð í samanburði við lengd, en aðalgrindin mjó og fyllti hvergi nærri út í tóftina. Aðalgrindin hafði sterkar stoðir, 7 hvorum megin að meðtöldum gaflastoðum, voru endar aðalbitanna greiptir ofaní efri enda stoðanna og sátu sperrutærnar þar ofan á; öll var aðalgrindin vel sterk. Í skotunum milli aðalgrindar og veggja voru nokkurskonar viðaukar við grindina, sem voru miklu rýrari og veikgerðari en aðalgrindin. Niður frá hverri sperrutá gekk »stuttsperra«, eða framlenging sperrukjálkans með sama halla og ris hennar var. Tá »stuttsperrunnar« hvíldi á »stuttstoð«, sem stóð út við vegginn, en ofan í efri

enda stuttstoðarinnar« var greiptur ytri endi á »stuttbita«, en innri endi hans gekk beint inn í aðalstoðina. Slá eða »silla«, sem gekk langs með veggnum, tengdi allar stuttstoðirnar saman, en efri endi »stuttsperrunnar« var greiptur í enda aðalbitans. Neðri endar bæði aðalstoða og »stuttstoða« höfðu staðið á »undirstokkum«; en þeir voru svo fúnir, þegar kirkjan var rifin, að ógjörla sást hvernig þar hafði verið frá gengið. Timburgólf var í kirkjunni allri. Utanmeð að neðan voru »plægð« borð negld innan á »stuttstoðirnar« en önnur tilsvarandi að ofan, og var neðri brún á þeim «strikuð«. Í þessi borð var veggþilið fest. Milli aðalstoðanna að ofan voru og eins konar »sillur« langsetis voru þær bogamyndaðar að neðan þannig, að tveir hálfbogar eins og mættust mitt á milli stoðanna. Stólar voru í framkirkjunni 2 á milli hverra stoða, nema milli hinna yztu, þar var bil, sitt hvorum megin dyra, sem enginn stóll var í. Tveir yztu stólarnir hvorum megin voru styttri en hinir, þeir náðu að eins út að aðalstoðunum; hinir innri náðu út að veggþili. Frá kirkjudyrum var setubekkur til beggja handa út með þilinu út í hornið, og svo inn með veggnum bak við hina stuttu stóla. Hann var kallaður »krókbekkur«. Framan við hvern stól var máluð »stólbrík« og voru þær festar í stokka, sem lágu langs eptir gólfinu sinn hvorum megin. Auk þess var dyraumbúningur fyrir ganginum við yztu stólana. Þar uppi yfir voru »klukknarambhöldin«. Að sunnanverðu sátu ógiftir karlmenn í stuttstólunum, og á krókbekknum, en ógift kvennfólk að norðanverðu. Í aðalstólunum áttu giftar konur sæti. Fram í innsta stólinn að sunnanverðu gekk prjedikunarstóllinn framundan bitanum sem var yfir kórdyrunum. Var sá stóll því fremur þröngur, en þess gætti minna af því, að fóturinn undir prjedikunarstólnum var í hærra lagi. Innsti stóllinn að norðanverðu var kallaður »stúka«; í honum sat prestskona og helztu konur. Milli hans og næsta stóls var nokkurskonar milligerð. Dyraumbúningur var fyrir honum og yfir dyrunum bogi með fallegum útskurði. Hurð hafði verið fyrir honum; en hún var brotin af hjörum er jeg man fyrst, og svo vissi jeg ekki meira um hana. Upp úr miðjum bitanum, sem næst var fyrir framan kórdyr, stóð sterkur uppstandari og gekk »útleggjari« úr efri enda hans innar eftir. Í honum hjekk ljósahjálmur úr kopar með 12 ljósapípum. Milligerð var milli kórs og framkirkju upp undir bita. Kórstafirnir gengu upp í bitann en undir honum, lítið neðar, var dyrabogi yfir kórdyrum. Milli bogans og bitans uppi yfir kórdyrunum var svonefnt »kontrafei«. Það var útskorin engilmynd, gengu viðargreinar upp af vængjunum og hjeldu uppi kórónu. Í miðjunni var gegnskorinn nafndráttur, sem þó var nokkuð brotinn. Í milligerðinni var þil að

neðan upp til miðs, en svo voru að norðanverðu rimagrindur upp undir bita, en að sunnarverðu tók prjedikunarstóllinn það rúm af, nema bil nokkurt var á milli hans og kórstafsins, og í því gegnskorin hríslumynd. Fyrir ofan bitann yfir kórdyrunum var þilspjald, er náði upp í sperruna báðum megin. Það var málað með myndum á hvora hlið. Á hliðinni sem fram vissi var Jósep og María, Símeon og Anna, og hafði Simeon barnið Jesú á örmum sjer Á þeirri hlið sem inn í kórinn vissi var hinn upprisni Kristur að blessa postulana á fjallinu hjá Betanía, en Jerúsalem sást álengdar. Í kórnum voru fastir bekkir báðum megin í kring frá dyrunum til altaris, en lausabekkir innan stoða. Altarið var útskorið á hurð og göflum. Á því stóð ljósastjaki af kopar með 2 hliðargreinum, gerður fyrir 3 ljós. Upp frá altarinu var fyrst »brík«, sem á voru skrifuð innsetningarorðin, en útskurður til beggja enda, og náði hann út fyrir altarið. Ofaná bríkinni var falleg altaristafla, gefin kirkjunni af frú Sigríði ekkju Jóns biskups Vídalíns 1728, og er sú tafla enn í kirkjunni, ásamt útskornu stykki sem var, og er, ofaná henni. Ekkert loft var í kirkjunni og engin hvelfing; sá allstaðar sperrurnar og súðina, sem var á öllu risi hennar frá mæni ofan á stuttsperrutær. Birtu fjekk kirkjan frá 6 gluggum. Langstærstir voru 2 sexrúðna-gluggar á kórgafli, sinn hvorum megin altaris fyrir neðan þilbitann. Þá var 4 rúðnagluggi á þekjunni yfir prjedikunarstólnum og voru þær rúður talsvert minni. Þá voru 3 einnar rúðu gluggar á framþili: sinn hvorum megin dyra, hærra en þær; og var stærð þeirra ekki fjærri rúðustærðinni í kórgluggunum; hinn þriðji var uppi yfir kirkjudyrunum, hátt fyrir ofan þilbita, og var sá minnstur. Var því birta heldur dauf í framkirkjunni þá er aftur voru dyrnar. Kirkjan var, eins og flestar kirkjur þá, með torfveggjum og torfþaki, en þil voru á göflum; þó náði kórþilið ekki nema niður fyrir gluggana, þá tók við torfþrep. En framan á var þil niður úr gegn. Þilin voru þreföld. Kirkjudyrnar voru fremur víðar, en ekki háar með »strikuðum« dyrastöfum og boga yfir. Var hurðin bogadregin ofan. Hún var tvöföld, því framan á hana var neglt »tíglaverk«, eða strikuð stykki, sem lágu í ferhyrningum, hverjum utan yfir öðrum. Miðtiglar voru tveir, annar ofarlega, hinn neðantil á miðri hurð. Í hann var rekinn kengur sá, sem hurðarhringurinn var festur í; hann var úr kopar, stór og digur, en þó járn þar er í kengnum ljek. Kengurinn var rekinn inn á milli tveggja upphleyptra «snarhandar«.stafa: B. S. Það var fangamark Brynjólfs Sigurðssonar sýslumanns í Hjálmholti, er kirkjuna ljet byggja 1760—70; en smiðurinn var Ámundi »snikkari« Jónsson, og og er útskurðurinn og málverkið eptir hann. Í fyrstu mun kyrkjan

öll hafa verið máluð innan og með myndum. En 1830 ljet sjera Stefán Þorsteinsson endurnýja súð hennar og þilverk, sem þá var mjög farið að fúna. Var þilverkið, sem jeg man eftir, að mestu frá þeirri viðgerð, og líka rimagrindurnar í milligerðinni milli kórs og kirkju. Framþil hafði þá verið sett nýtt, en þó sama hurð og dyraumbúningur. og stóð það fram á mína daga. En 1857 ljet sjera Skúli Gíslason smíða nýtt framþil á kirkjuna með nýrri hurð; en hin gamla var mjókkuð og höfð fyrir þinghússhurð meðan hún entist. Hvað um hringinn varð, vissi jeg ekki.

*Eftirmynd* eða *sýnishorn af útbrotabyggingarlaginu* hefi jeg nú látið smíða handa forngripasafninu, og er nú nr. 4101 meðal gripa safnsins. Það gjörði að mestu Guðmundur bóndi á Baugsstöðum, bróðir minn, eftir minni fyrirsögn, er jeg lagaði eftir Stóra-Núpskirkju, þeirri er nú var lýst. Sú var í fyrstu ætlan mín, að sýna einungis *grindina sjálfa* og *krókbekkjaskotin,* sem einkum einkenna »*útbrotabygginguna*«. En við nánari umhugsun sá jeg, *að þörf var á að sýna sem flest af því, sem gjörði slíkar kirkjur frábrugðnar kirkjum nú,* svo sem *kórdyraumbúning, klukknarambhöld* og *dyraumbúning þar undir kyrkjudyr með hurð, kórgluggarámma* og *þilglugga* að framan. En til þess þurfti að setja þilborða-sýnishorn eitt hvorum megin kirkjudyra, (og er milliþil sýnt um leið). En þverstykkin, sem eru innanundir framþilsgluggunum, eru að eins til styrktar, en ekki af því að svo væri í kirkjunni sjálfri. Sama er að segja um þverslána undir kórgluggarömmunum. Hún er sett til að halda þeim föstum, en var ekki í kirkjunni sjálfri. Þess ber að geta, að kórgluggarammarnir urðu í stærra lagi. Litla gluggann sem var á framþilinu uppundan kirkjudyrum, gat jeg ekki látið sjást, því þá hefði orðið að byrgja ofmjög fyrir sýni gegnum framgaflinn. Þakglugganum hjá prjedikunarstólnum varð líka að sleppa, því óhægt var að koma honum fyrir. En þrátt fyrir þessa galla vona jeg að *sýnishornið* gefi nokkurnveginn rjetta hugmynd um það, sem það á að sýna. Hvorki er sýnt altari, prjedikunarstóll nje stólar, ekki heldur þilverk eða súð, — nema eitt borð hvorum megin til styrktar, — því ekkert af þessu var einkennilegt fyrir það *byggingarlag,* sem verið er að sýna.

Ekki hefir mjer heldur þótt þörf á, að lýsa hjer ítarlega útskurði eða málverkum í kirkjunni, þar eð allt slíkt, sem nokkuð kvað að, er vel geymt, sumt er í kirkjunni enn, en sumt, og raunar flest er komið á forngripasafnið.

*Brynjólfur Jónsson.*

---

# Yfirlit

## yfir þá muni, er Forngripasafni Íslands hafa bæzt 1896.

(Tölurnar fremst sýna tölumerki hvers hlutar í safninu).

4223. Hverfisteinn frá Hvítanesi í Skilmannahreppi í Borgarfjarðarsýslu.
4224. Legsteinn úr gráum steini íslenzkum frá sama stað.
4225. Skutull úr járni. Vestan af Breiðafirði.
4226. Skutull úr járni, stærri, einnig frá Breiðafirði.
4227. Skutull úr járni frá Seltjarnarnesi við Faxaflóa.
4228. Heiðurspeningur veittur Vilhjálmi Hákonarsyni í Kirkjuvogi, úr silfri.
4229. Heiðurspeningur frakkneskur úr bronsi veittur sama manni (V. H.).
4230. Kventreyja úr svörtu klæði.
4231. Beizlisstengur úr járni, mjög langar.
4232. Kápa utan af bók, frá 18. öld.
4233. Skráarlauf steypt úr kopar. Fundið í Reykjavík.
4234. Belti með látúnspörum og svörtum flauelslinda.
4235. Beltispör úr drifnu silfri, fóðruð með eir.
4236. Ermahnappur úr látúni, lauflaus.
4237. Beltishringja, þornlaus, úr kopar, gagnskorin.
4238. Sex millur úr tini, hjartamyndaðar, með blöðum.
4239. Næla úr eiri, fundin í rúst á Þingskálum.
4240. Mannlíkan úr eiri, fundið á sama stað.
4241. Olíumynd af leyndarskjalaverði Grími Jónssyni Thorkelín.
4242. Konumynd saumuð með svörtum silkitvinna í hvítt ljerept.
4243. Koffur úr silfri, gylt (stjörnukoffur).
4244. Fimm peysuhnappar úr silfri; austan úr Múlasýslum.
4245. Skurðverk af prjedikunarstól, úr Klausturhólakirkju.
4246. Sex millur úr kopar.
4247. Reiðakúla úr látúni með rósafljettingum og letri á.
4248. Skjöldur af söðulbrík, grafinn og gagnskorinn.
4249. Þrír ermahnappar úr glerkúlum látúnsbúnum.
4250. Samfelluhnappur úr eiri.
4251. Kotrutafla lítil, úr hvalbeini; fundin í Reykjavík.
4252. Mellulás úr járni. Úr Hálsasveit í Borgarfirði.
4253. Tóbaksdósir úr silfurblendingi, er átt hefur Ásgrímur Vigfússon Hellnaprestur.

4254. Steinsnúður fundinn nærri Búlandi í Skaptártungu.
4255. Kápa utan af gamalli bók með látúnsspenslum.
4256. Kápa utan af bók með stimpluðum rósum.
4257. Kápa utan af bók (Harmonia evangelica).
4258. Blað af rýtingi fundið nærri Kaupangi í Eyjafirði.
4259. Blað af hnífi (týgilknífi?). Fundið í Mosfellssveit.
4260. Tarína gömul úr leiri, hvít, sporöskjulöguð.
4261. Ístað úr járni, fundið norðan til í Ódáðahrauni.
4262. Ístað úr járni, fundið við Geirbjarnarstaðaferju.
4263. Beizlisstöng með mjelum úr járni, fundin við Lundarbrekku.
4264. Melluláslykill lítill. Norðan úr Þingeyjarsýslu.
4265. Skaflaskeifa fimmboruð, fundin í jörð.
4266. Altaristafla úr eik, máluð. Norðan úr Þingeyjarsýslu.
4267. Skápur útskorinn frá 17. öld. Norðan úr Þingeyjarsýslu.
4268. Lok af öskju, skorið. Norðan úr Skagafirði.
4269. Krossmark úr kopar. Norðan úr Eyjafirði.
4270. Snældusnúður úr trje. Af Austfjörðum.
4271. Innsigli úr rostungstönn. Af Austfjörðum.
4272. Fimtán taflmenn, 13 úr hvalbeini, 2 úr rostungstönn. Af Austfjörðum.
4273. Sextán taflmenn úr trje, sumir mjög gamlir.
4274. Brauðstíll úr eiri, fundinn í Gerðakoti á Miðnesi.
4275. Hnífskapt úr kopar; austan úr Flóa.
4276. Spónskapt úr tönn; fundið í gömlum rústum nálægt Kaldárholti í Holtum.
4277. Altarisbrík lítil úr Klausturhólakirkju með mynd af kvöldmáltíðinni.
4278. Söngtafla hvít, með svartri umgerð, úr sömu kirkju.
4279. Altarisklæði saumað með silki í hvítt hörljerept. Frá kaþólskri tíð.
4280. Beltislindi úr silfri. Austan úr Flóa.
4281. Tvær reiðgjarðarhringjur frá 17. öld. Austan úr Flóa.
4282. Pallkistill með ártalinu 1747 á framhliðinni og höfðaletri á lokinu.
4283. Styttuband, spjaldofið, með bandaletri. Austan úr Flóa.
4284. Danskur gullpeningur frá árinu 1759.
4285. Silfurpeningur danskur frá árinu 1740.
4286. Skeið úr látúni fundin í rústum á Víkingslæk í Rangárvallasýslu.
4287. Sessuver með augnasaumi. Úr Þingeyjarsýslu.
4288. Flossessa frá Narfastöðum í Þingeyjarsýslu.
4289. Fjórir »pílárar« úr milligerð kórs og framkirkju. Frá Klausturhólum.
4290. Skyrtunál úr silfri.
4291. Kvenkragi (skrautkragi) úr svörtu flaueli, »baldíraður«.
4292. Ábreiða gömul, útsaumuð, úr ætt Boga Benediktssonar á Staðarfelli.
4293. Hálsfesti með kingju, úr silfri, gylt. Úr sömu ætt.
4294. Kross af hálsfesti úr silfri, gyltur. Úr sömu ætt.
4295. Dúkur úr hvítu silki, gamall.
4296. Hóftungujárn með skapti úr trje.
4297. Karlmannsskotthúfa úr klæði með uppslögum og silkiskúf.
4298. Steinsnúður forn, fundinn í rústum í Skriðu.
4299. Snældusnúður úr beini, fundinn á sama stað.

4300. Svipt úr látúni, fundin á sama stað.
4301. Víravirkishnappur lítill, úr látúni. Frá sama stað.
4302. Vestishnappur úr látúni. Frá sama stað.
4303. Beizlisstöng úr kopar. Frá sama stað.
4304. Skeið úr látúni. Frá sama stað.
4305. Beltisstokkur úr látúni með eirþynnu undir. Frá sama stað.
4306. Hvítleitt efni í kökkum (leifar af einhverjum mjólkurmat?) Frá sama stað.
4307. Stór kökkur úr svörtu efni með dúk utan um. Frá sama stað.
4308. Beinarusl af sauðfje og stórgripum. Frá sama stað.
4309. Tætlur af dúk með sömu vend og Garðahauzkinn. Frá sama stað.
4310. Lítil ausa úr móleitum steini. Frá sama stað.
4311. Hesputrje í glasi; úr eigu Pjeturs biskups.
4312. Fingurgull, steinhringur, með hólfi að innanverðu. Úr Þingeyjarsýsiu.
4313. Hálfur steinsnúður, mjög lítill. Fundinn í Þórsmörk.
4314. Lítið brýni. Fundið sama staðar.
4315. Lítill broddur úr eiri. Fundinn sama staðar.
4316. Enskur silfurpeningur, 4 pens.
4317. Enskur silfurpeningur, 3 pens.
4318. Enskur silfurpeningur, 2 pens.
4319. Enskur silfurpeningur, 1 penny.
4320. Reiðbjalla úr bronsi, fundin nálægt Bíldhól á Skógarströnd.
4321. Hnífskapt gamalt, fundið í nánd við sama bæ.
4322. Skráarfluga úr kopar, með kórónumynd.
4323. Skírnarhúfa úr grænu silki með »baldíraða« burst úr flaueli.
4324. Hornbönd, miðdoppa og spensl af gamalli bók, úr látúni.
4325. Hnappur úr kopar, fundinn í jörðu.
4326. Hnappur úr »prínsmetal«, fundinn í jörðu.
4327. Eldstál með tinnu (stálið smíðað eptir fyrirsögn gefanda).
4328. Milla úr kopar.
4329. Milla úr kopar.
4330. Milla úr kopar.
4331. Járnhringja með járnsvipt, fundin í jörðu.
4332. Reiðbjalla úr bronsi með kúlu innan í.
4333. Altarisbrík frá Reykholtskirkju í Borgarfirði.
4334. Skírnarfat úr látúni frá sömu kirkju.
4335. Skápur útskorinn, frá 17. öld. Af Vatnsnesi.
4336. Tala úr steinasörvi, fundin nálægt Eskiholti í Landmannahreppi.
4337. Hnappur úr látúni, fundinn í Suðurárhrauni.
4338. Fleinn eða oddur úr járni (ör?), fundinn hjá Svartárkoti.
4339. Bjúghnífur, fundinn á sama stað.
4340. Nisti úr bronsi, kringlótt. Fundið í dysi hjá Vaði í Skriðdal.
4341. Þynna úr bronsi og lítill trjekubbur. Fundið á sama stað.
4342. Mynd úr trje af Jóni varalögmanni Ólafssyni.
4343. Olíumynd af Gunnlaugi dómkirkjupresti Oddsen.
4344. Rauðkrítarmynd af Guðmundi sýslumanni Pjeturssyni. Eptir Sæm. Holm.
4345. Rauðkrítarmynd af Guðmundi Ketilssyni. Eptir sama.

4346. Rauðkrítarmynd af Magnúsi Ketilssyni. Eptir sama.
4347. Rauðkrítarmynd af Sæmundi Holmi. Eptir sama.
4348. Minnispeningur úr bronsi, norskur.
4349. Minnispeningur úr nýsilfri, norskur.
4350. Minnispeningur úr bronsi, norskur.
4351. Minnispeningur úr bronsi, norskur (872—1872).
4352. Minnispeningur úr bronsi, norskur.
4353. Tveir minnispeningar frakkneskir, annar úr bronsi, hinn úr nýsilfri.
4354. Minnispeningur úr bronsi norskur (Chr. Hansteen).
4355. Minnispeningur úr bronsi, norskur.
4356. Lokkur af hári Alberts Thorvaldsens.
4357. Kveðja til Íslendinga 1874, skrautskrifuð, frá h. konungl. danska listaskóla.
4358. Kveðja til Íslendinga 1874 frá Þrándheimi.
4359. Kveðja til Íslendinga 1874 frá bæjarráði Kaupmannahafnar.
4360. Kveðja til Íslendinga 1874, skrautrituð, frá Kaupm.hafnar háskóla.
4361. Kveðja til Íslendinga 1874, skrautrituð, frá stúdentum í Kmhöfn.



# Smávegis.

Eftir

**Björn Magnússon Olsen.**

---

## I.

## Legsteinar og grafskriftir með latínuletri.

Rúnasteinar eru því miður fremur fásjeðir hjer á landi. Aftur á móti er landið mjög auðugt að legsteinum með latínuletri. Þeir finnast svo að segja í hverjum kirkjugarði og tala til vor um horfnar aldir, um forfeður vora, líf þeirra, trú og siðu.

Því miður virðist það ekki enn vera komið inn í meðvitund þjóðarinnar, hversu mikill fjársjóður firir persónusögu landsins er fólginn í þessum þögulu, enn þó talandi vottum horfinna alda. — Legsteinum þessum er lítill gaumur gefinn og víða eru menn svo ræktarlausir — að jeg ekki segi annað verra — að þeir leifa sjer að hagníta sjer legsteina þessa, flitja þá af leiðinu, þar sem ástríkir ættingjar hafa sett þá, hafa þá annaðhvort í grundvöllinn undir kirkjuna eða í stjett firir kirkjudirum eða til annars verra, ganga á þeim og brjóta þá í sundur. Ef þetta er ekki það, sem rómverska skáldið kallar »*mingere in patrios cineres*« (saurga ösku feðra sinna), þá veit jeg ekki hvað er. Fornleifafjelagið og forngripasafnið hafa hjer vítt verksvið firir höndum, að vernda þessar fornleifar frá glötun, safna þeim og gera þann fróðleik, sem í þeim er fólginn, heirum kunnan og arðberandi fyrir sögu landsins. Ættu þau til þess að eiga vísa aðstoð prestanna og kirkjustjórnarinnar, því að þeim stendur það næst að vernda *rjett* látinna manna og sjá um að trú og góðum siðum sje ekki misboðið með svo bligðunarlausri röskun á friði og helgi grafarinnar.

Fornleifafjelagið hefur þegar gefið út nokkrar af þessum áletrunum í árbók sinni. Jeg leifi mjer nú að bæta við fáeinum.

1.

Um 1640 var *Vigfús síslumaður Gíslason* einn af helstu höfðingjum sunnanlands. Hann var sonur Gísla lögmanns Hákonarsonar og var first skólameistari á Hólum og síðan (1630) í Skálholti (Árbækur Espólíns VI 46). Árið 1632 fjekk hann Árnessíslu og mun þá um hríð hafa búið í Bræðratungu. Enn síðan gekk hann að eiga Katrínu Erlendsdóttur, síslumanns á Hvoli, Ásmundarsonar Þorleifssonar lögmanns, og mun Vigfús þá hafa flutt búferlum að Hvoli til tengdaföður síns, og þar var hann, þegar Erlendur dó árið 1640, og bjó síðan á Hvoli til dauðadags.

Norður frá kirkjudirum að *Stórólfshvoli* er legsteinn Vigfúsar síslumanns. Hefur hann lengi verið hafður firir stjettarstein og er mjög máður og lítt læsilegur sumstaðar. Á honum er þetta letur[1]:

*Hoc (vi)de (?) s(epulcro) (?) qviescit cor*
*pvs viri [clari]ssi(mi) e(t) (pii)ssimi et optimi*
*[vi]gfus(er) g(i)sl . . . . [n]obili quidem*
*. . . . . . . . (nec) minus splen*
*didvm et . . . . . s (a)ccepit re*
*linqventis. vi . . . munere publico*
*alio . . . . . . . ordinarius a regiis*
*constitutus territoriorum arnes sy*
*slu rangarvallasyslu et insulæ vest*
*mannaever[2] m[anet] rest[itutionem] vniverse car*
*nis decessit anno ætatis 39 qvi incidit in*
*annum christi nati 1647 14 aprilis relicta*
*coniuge dilecta catarina erlendi filia*
*eademque iam mestissima cum quinque*
*liberis orphanis cum quinque alii fata*
*parentis moriendo prævertissent ma*
*gno cum patriæ et amicorum detrimento*
*veniet dies restitutionis omnium*
*act. 3. et credo remissionem*
*peccatorum et vitam æternam. amen.*

Á þessu sjest, *að* Vigfús hefur verið síslumaður í þrem síslum, Árness-, Rangárvalla- og Vestmannaeijasíslu, *að* hann var á 39. ári, þegar hann dó árið 1647, og er því fæddur 1609 (eða 1608?), *að*

1) Þeir stafir, sem óglöggir eru, standa í svigum ( . . . ), enn þeir í hornklofum [ . . . ], sem jeg hef bætt í eiðurnar, þar sem jeg gat ekki lesið með neinni vissu. Hver lína er hjer prentuð í línu firir sig.

2) Þannig!

hann dó 14. apríl, og kemur það heim við það, sem Espólín segir (Árb. VI. 119), að hann hafi dáið miðvikudaginn síðastan í vetri, sem ber upp á 14. apríl árið 1647, og loks *að* þau Katrín hafa alls átt saman 10 börn; þar af lifðu 5 föður sinn, enn önnur fimm vóru dáin á undan honum. Espólín telur og fimm börn þeirra Vigfúsar: Gísla, Jóna tvo, Salvöru og Þorbjörgu. Af þeim varð nafnkendastur Jón ingri, er kallaður var Bauka-Jón og first var síslumaður í Borgarfirði, enn síðan biskup á Hólum. Þorbjargar verður síðar getið.

2.

*Katrín* húsfreija *Erlendsdóttir* bjó að Stórólfshvoli langa hríð eftir lát manns síns, Vigfúsar síslumanns. Hún var kölluð nokkuð fjeglögg. Árið eftir andlát manns síns, 30. október um haustið, varð hún firir því óhappi, að bærinn á Stórólfshvoli brann, öll hús nema kirkjan, og hinir mestu fjármunir. »Er sagt, að Katrínu hafi dreimt áður, að kirkjan brinni, enn hún hafi haft þar inni kistur sínar með mörgu fjemætu, og hafi látið bera þær í bæinn, enn kistur hjúa sinna í kirkju aftur, enn öfugur hafi orðið draumurinn«. Frá þessu segir Espólín (Árb. VI. 128). Katrín hlítur að hafa verið mikilhæf kona, því að enn eru til munnmælasögur um »Katrínu ríku« á Stórólfshvoli og þar í grend, bæði saga sú um drauminn, er Espólín segir frá, og aðrar fleiri. Rjett við bæinn á Stórólfshvoli er allstór klettur, sem kallaður er Bjalli, allbrattur, enn þó ei þverhníptur. Segja menn, að Katrín hafi hlaupið undan eldinum upp þennan klett, þegar bærinn brann, og eru enn sínd spor hennar í klettinum, litlar dældir í klettinn, sem líkjast sporum. Uppi á Bjallanum er dálítil dæld kringlótt, er menn segja, að Katrín hafi haft firir skirkerald. Hefur þar verið grafið í firir skömmu, enn ekkert fundist. Til dæmis um fjegirni Katrínar er það sagt, að hún hafi verið vön að kveðja mann sinn, er hann fór í þingaferðir með þessum orðum: »Mundu eftir mjer og mínum fátæku börnum«.

Ifir altari í *Stórólfshvolskirkju* er olíumind. Sjest þar efst Kristur á krossinum. Firir neðan krossinn til vinstri handar krípur kvennmaður með hvíta skuplu á höfði í bláu pilsi. Að ofan er hún í dökkleitum möttli með stórum kraga, er líkist prestakraga. Til hægri frá krossinum breiðir trje út limar sínar. Undir krossinum liggur hauskúpa ofan á krosslögðum beinum og tímaglas, er hvílir á kerúbavængjum. Á bak við sjest borg, sem líklega á að tákna hina himnesku Jerúsalem, og fjöll í fjarska. Umgjörð skrautleg er um mindina í »barok«-stíl með korintskum súlum. Ifir mindinni er bifliustaður, letraður með giltu letri: »Mínum sorgargrát

hefur þú snúið í dans . . . Drottinn, guð minn, að eilífu vil jeg þjer þakkir gjöra. Psalm. xxx. v. 12.«.

Undir mindinni er þetta með giltu letri:

*Her. hvilir. likame.*
*g(öfgrar). og. digdvm. pryddrar. hofdingskvinnu.*
*Katrinar. Erlendz. dottvr.*
*hver. eptir. XII. ara. christilegt. hionaband.*
*med. sinvm. hiartkiœra. ektamanni.*
*wigfusa*[1]. *gislasyni.*
*i gudrœkilegv. eckiustandi. lifdi. i. L. ar.*
*og. sidan. i. drottni. sœtlega. burtsofnadi.*
*a. LXX . .*[2] *ari. sins. aldurs.*
*anno. christi. mdcxc(v)[ii]*[3]
*at. eptirlatnri. odavdlegri. minningo.*
*sinnar. gvdhrœdzlo. oc. aulmoso.*
*giør[da.]*[4]

[5]

*Eptir. sina. elskuliga. føður. oc.*
*fostrmodvr. let. þetta.*
*epitaphium. reisa.*
*16(98.)*
*Þordr. Jonsson.*

Hjer segir, að Katrín hafi lifað 50 ár eftir mann sinn, er dó 1647. Hefur hún því dáið 1697, og eftir því hef jeg filt út eiðuna í dánarártali hennar. Það er því ekki rjett, sem Espólín segir, að Katrín hafi andast 1693. Því miður verður ekki sagt, hve gömul hún var, þegar hún dó, svo að eiðan, sem er í aldursár hennar í grafletrinu verður ekki filt, enn eflaust hefur hún verið komin ifir áttrætt. Í grafletrinu segir, að hún hafi lifað í hjónabandi með manni sínum í 12 ár. Hafa þau þá gifst 1635 eða 1634, því að Vigfús dó snemma á árinu 1647. Lætur þá nærri, að Katrín sje fædd 1616, og hafi gifst 18 eða 19 ára gömul. Hefur hún þá haft einn um áttrætt, er hún dó. Eins og margir gamlir menn hafði hún

1) Þannig!

2) Ólæsilegir c. 2 stafir.

3) *v* sjest ógreinilega; þar á eftir eiða, er í hafa staðið 2 stafir, nú ólæsilegir.

4) 2 síðustu stafirnir ólæsilegir.

5) Hjer er rósaverk á spjaldinu, sem auðvitað er ekki líkt þeirri rós, sem hjer er prentuð.

þá sorg að sjá börn sín deija á undan sjer. Að minsta kosti vóru allir sinir hennar dánir á undan henni (Gísli meistari dó 1673, Jón eldri, síslumaður í Árnessíslu, 1682, og Bauka-Jón 1690).

Þórður Jónsson sá, sem hefur látið gera þetta minnisspjald eftir ömmu sína og fóstru, er vafalaust Þórður sonur Jóns biskups Vigfússonar. Hann kom heim til Íslands frá Kaupmannahöfn einmitt árið 1698, sama árið sem mindaspjaldið er gert, og varð þá skólameistari í Skálholti[1]. Mun hann hafa haft spjaldið út með sjer. Það var honum líkast að sæma ömmu sína með þessu, því að hann var maður hinn ættræknasti. Sindi hann það, er hann rjetti mál föður síns í hæstarjetti, er hafði verið dæmdur í stórsektir á alþingi dauður, firir prang og önnur afbrot. Þórður varð síðar (1702) prestur á Stað á Snæfellsnesi og prófastur († 1720).

3.

Þorbjörg, dóttir þeirra Vigfúsar síslumanns og Katrínar giftist 1664 *Gísla Sigurðarsini*, prófasts í Stafholti, Oddssonar biskups Einarssonar[2]. Enn eigi naut hún hans lengi, því að Gísli dó 2 árum síðar. Þau bjuggu að Oddgeirshólum[3].

Firir sunnan kirkjudir að *Stórólfshvoli* er legsteinn Gísla Sigurðarsonar. Er þar á þessi grafskrift með settletri:

*Vnder þessum legstein*
*liggur grafin lijkamj*
*Digdum giœdda Haufdingz*
*Mans Gijsla Sigurdsonar*
*Hver lijka sem Hañ komiñ*
*og boriñ var af virduglegu*
*Folke sijns Faudurlandz so burt*
*sofnadj Hañ og ejrniñ loflegũ*
*lofstijr efter sig látnum a*
*XXVII ári sijns alldurs þañ*
*14 dag JANVARII ANNO MDCLXVI*
*Efterlifñdj Hans Allrakiœrustu E*
*ckta Kujñu Þorbiorgu Wijgfus*
*dottur Hver ed sijnum S. Ecktamij*[4]
*og Hans legsrad*[5] *til œru og miñ*
*ingar Hefur uppa siñ eigin*

1) Espólíns Árb. VIII. 62.
2) Espólíns Arb. VII. 39.
3) S. st. 44. bls.
4) Þannig (= ektamanni).
5) Þannig!

*Kostnad þeñañ Legstein vtflytia*
*og Hier leggia látid*

*Coelo dignus eras, coelum tibi debita quies est.*
*Gislaue in coelo præmia justa capis.*

Espólín segir, að Gísli hafi dáið 7. febrúar 1666, enn grafletrið sínir, að mánaðardagurinn er rangur.

---

Legsteinar þeirra Vigfúsar síslumanns og Gísla Sigurðarsonar eru ekki úr íslensku grjóti. Þriðji legsteinninn, líka úr útlendu grjóti, sem hefur verið mjög fagur, liggur firir kirkjudirum, enn af honum er allt letrið svo máð, að ekkert verður lesið, því að mest hefur verið gengið á honum. Mætti til geta, að sá steinn hefði verið ifir Erlendi síslumanni, föður Katrínar ríku, eða Jóni eldra síslumanni, sini hennar. Þeir dóu báðir að Stórólfshvoli, Erlendur 1640, enn Jón 1682.

Vestur frá kirkjudyrum að Stórólfshvoli er legsteinn úr íslensku grjóti, flatur. Hann er nú alveg ólæsilegur, enn sjest þó móta firir, að letur hefur á verið. Var mjer sagt það firir víst, að þar lægi undir Þórarinn Öfjörd síslumaður, er dó 1823.

Í útsuður frá kirkjuhorninu er annar legsteinn flatur úr íslensku grjóti, og sjest, að letur hefur verið á fletinum, sem upp snír, enn það er nú alveg ólæsilegt. Jón hreppstjóri í Garðsauka sagði mjer, að það væri víst, að þessi steinn væri ifir firri konu föður síns, Helgu Ísleifsdóttur, sistur Sigurðar á Barkastöðum, og hefði hún dáið um 1838.

Þessi tvö dæmi sina, hvað íslenska grjótið eiðist fljótt firir veðri og vindi, og er það því mjög óhentugt í legsteina.

4.

Í kirkjugarðinum á *Stað* á *Reikjanesi* er legsteinn með þessu letri:

*Sub hoc lapide jacent*
*ossa viri piissimi præstan*
*tissimi ac eruditissimi*
*Dñi Enari Threbonii*
*filii pastoris olim Stein*
*grimsfiordensium et Reikness*
*ensium per annos xxviii*
*dignissimi qui in sacro conjugio*

*cum uxore dilectissima*
*matrona omni laude*
*(ac) titulis digna*
*Ragneida Jani*
*filia vixit annos xxv*
*obiit anno christi mdcxcviii*
*d. 4. sept. ætatis*
*lxvi.*

*Sap. III. v. 1.*
*Justorum animæ sunt in manu Dei.*

Sá *Enarus Threbonii filius*, sem legsteinn þessi er ifir, er Einar Torfason, prests að Kirkjubóli, Snæbjarnarsonar, prófasts sama staðar. Einar vårð first prestur að Stað í Steingrímsfirði (1670). Þar varð hann hórsekur og varð að sleppa því kalli (um 1680), enn fjekk firir konungs náð að halda embætti. Fjekk hann síðan Stað á Reikjanesi (1682) og var þar prestur til dauðadags (4. sept. 1698 eftir grafletrinu). Var hann þá á 66. ári, segir letrið, og er því fæddur 1632 eða 1633. Einar prestur var illa þokkaður firir málaflækjur, eftir því sem Espólín segir, og virðist því legsteinninn bera honum heldur vel söguna. Hann átti Ragnheiði Jónsdóttur, frá Miðhúsum, Magnússonar Arasonar. Segir letrið, að þau hafi lifað saman í hjónabandi í 25 ár.

## Legsteinn á Gufunesi.

Frá lektor Þórh. Bjarnarsyni.

Fyrir dyrum hinnar niðurlögðu kirkju á Gufunesi var legsteinn, sem mælt er að komið hafi upp úr moldu, er kirkja þar var stækkuð eða færð fram. Steinninn er 2 álnir 11 þuml. á lengd og 1 al. og 5 þuml á breidd, að öllu óskemmdur, letrið mjög skýrt, 2 stryk dregin allt í kring eptir röndunum, englamyndir í hornum og rósaflúr í milli að ofan og neðan. Á einum stað í Árbókum Espólíns (VI, 30) er þessa Högna getið, sem mun hafa verið bóndi á Gufunesi.

Á steininn er letrað:

HIER ⁑ VNDER ⁑ HV
ILER ⁑ GREPTRAD
VR ⁑ ERLEGVR ⁑ TR
IGGVR ⁑ NAFN ⁑ F
RÆGVR ⁑ OG ⁑ FRID
SAMVR ⁑ MADVR
HAVGNE ⁑ SVGVRD
SSON ⁑ ENDADE ⁑ E
LLE ⁑ MÆDDVR ⁑ EPT
ER ⁑ GIRND ⁑ SINNE
ALLA ⁑ ANGIST ⁑ AND
AR ⁑ OG ⁑ LIKAMA ⁑ Á
87 ⁑ ARE ⁑ S ⁑ A ⁑ 18 ⁑ OCT
ANNO(*) 1671 ⁑ OG ⁑ HE
FVR ⁑ IFER ⁑ VNNED
FIRER ⁑ LAMBSINS ⁑ BL

Á þessum eina stað »komma« yfir.

(*) Hjer ekki stjörnurnar í milli.

Um

# myndir af gripum í forngripasafninu.

Eptir **Pálma Pálsson.**

---

### Belti með sprota.

(Nr. 3729).

Það er úr silfri og alt gert af hinu forna gotneska loptverki og gylt; pörin eru eiginlega engin á belti þessu og er öðru megin hringja, sem krækt er í sjálfan lindann; hringjan breikkar og víkkar fram og er 4½ sm. á breidd, þar sem hún er breiðust, og er sem sjái skáhalt á hlið hennar, því að hún er víðari að innanverðu; í jöðrum hringjunnar er digur vír og þar í milli er smágert og margbreytt loptverk, gert í líking við blöð og blómstur, en þar í milli eru korn og lykkjur eða hringar; þornið er gert úr þreföldum vír samankveiktum og efst á því er stórt korn, sem stendur í skál milli 4 uggaðra blaða, en endarnir á 2 neðri vírteinunum eru beygðir út á við í hring; hringjan og þornið leikur á þolinmóði í stokknum, sem er að eins 2½ sm. á breidd, en 5½ sm. á lengd, þá er með er talinn dálítill kafli áfastur honum, sem hringjan er við fest, og er sá kafli með 2 djúpum dældum að ofan og eru 3 göt í gegnum hvora þeirra og vik inn frá jöðrunum; á sjálfum stokknum er hátt loptverk, fast á plötu, er má draga út úr umgerðinni, ef vill; verkið á honum er í 2 hringum samföstum og líkist mest samanlögðum blöðum, svo sem í blómsveigum, en í milli þeirra og þeim megin, sem að hringjunni veit, eru sem hálfútsprungin blómstur, sem gerð eru úr snúnum vír; á jaðra stokksins er kveiktur margþættur vír og digur, en neðan á stokknum er eitthvert krot, er sýnist eiga að vera stimplar, og tölustafirnir IXX eða XXI. Á lindanum sjálfum eru 17 stokkar með líkri gerð, en allir minni og eigi alveg eins fjölskrúðugir að verki, því að þar vantar t. d.

blómstrin. Á sprotanum eru og 7 slíkir stokkar sem á lindanum og 7 doppur að auki kringlóttar með stóru korni í miðju og lykkjum eða hringum umhverfis, sem blaðasveigur væri, og sams konar sem framan á hringjunni miðri, en þó heldur stærri. Aptur er sjálfur sprotinn (sprotastokkurinn) með sams konar gerð sem stokkurinn við hringjuna og þó helmingi lengri; niður úr honum gengur lítill kengur og mun í hans stað upphaflega hafa verið broddur eða typpi með skrúfugangi (eins og á nr. 3797, því að það er mjög fornt lag, eða þá í líking við typpin á nr. 928, 1140, 1582 eða 1625, því að á þeim er og fornt lag, en þó nokkuru yngra en ætla má að verið hafi á þessu belti); á síðari tímum, er typpið var glatað, hefur svo kengurinn verið settur á sprotann og lauf hengt neðan í hann; neðan (eða innan) á sprotann er grafin mynd af kvenmanni með barðastóran, koll-lágan hatt á höfði og 2 fjaðrir upp af; hún er í mjög flegnum kyrtli, ermastuttum og dragsíðum og eru stór uppslög á ermunum; í hægri hendi heldur hún á skapti, sem að ofan greinist í blaðasveig, er fyllir alt bilið fyrir ofan og til hliðar við höfuð hennar. Hnappurinn er eigi mjög stór, 4½ sm. í þvermál; umgerðin er þykk og stömpuð utan og sömuleiðis efri brúnin, en innan í umgerðinni er slétt plata nokkuð kúpt og þar ofan á er mjög margbrotið verk úr snúnum vír, er myndar eins konar hæðir, alls 7, og er ein í miðju, því að þar rís þetta verk hátt upp frá plötunni (undirlaginu), en næst plötunni eru 7 hringar og ofan á þá er þetta loptverk kveikt; í öllum lykkjum, sem á þessu upphafna verki verða, og í bilunum utan með hringunum eru korn og eigi öll jafnstór. Lindinn undir beltinu er úr rauðu skinni, er sett var að ráðum Sigurðar málara Guðmundssonar milli 1860 og 1870, og ganga fætur úr hverjum einstökum hluta silfurverksins í gegnum lindann og band dregið í að innan.

Belti þetta er bæði forn og merkilegur gripur, þar sem alt verkið er einkar vandað, og ber að ýmsu leyti langt af öllum öðrum samskonar gripum í safninu. Það er talið að vera frá 15. öld.

Það vita menn fyrst til beltis þessa, að það var í eigu Guðrúnar Einarsdóttur, móður Jóseps læknis Skaptasonar í Hnausum.

Á myndinni eru sýndir 3 partar af beltinu; efsti parturinn á myndinni sýnir beltishnappinn með 4 næstu beltisstokkum við hann og neðsti parturinn beltishringjuna með hringjustokkinum og 2½ beltisstokki; en miðparturinn sýnir 2 neðstu stokkana af sprotanum.

---

## Gamall stóll.

(Nr. 443).

Hann er mestallur úr birki, nema fjalir í setunni og botninum úr greni, og mjög útskorinn. Fæturnir eru telgdir í líking við brugðinn starkong; að framanverðu er neðst útskorin fjöl með eins konar brugðnu,gegnskornu hnútaverki með laufum, í rómönskum stíl, með snúning fyrir ofan; þessi fjöl er laus og negld með trénöglum á slétta fjöl, sem greypt er í báða fæturna, og vantar þó nokkuð við annan endann og hefir þar að líkindum verið önnur fjöl skorin og fest á sljettu fjölina með sama hætti; en þar fyrir ofan er önnur fjöl og á hana skorin röð af hringum, sem ganga hver í annan; þar innan í er skorið með fábrotnu höfðaletri:

GUD IhS ChS DROTTINN.

Á stólbríkunum er og hnútaverk í sama stíl og öðru megin stafirnir IhS, en hinu megin ChS.

Á neðstu þverfjölina í bakinu, þá sem næst er setunni, er skorinn brugðinn strengur og þar fyrir ofan 15 telgdir pílárar. Þar fyrir ofan koma 3 þverfjalir, sem feldar eru saman á röndum og liggja við herðarnar, þegar setið er á stólnum; á neðstu fjölinni er bekkur með útskornum dýrum; þar eru mynduð tvö ferfætt dýr, sem eru að berjast, og liggur annað undir; þau bíta hvort í rófuna á öðru; þar næst er flugdreki að berjast við ljón; á miðri fjölinni er IhS innan í hring; þar næst er hestur, er stendur við tré, og síðast maður með snaghyrnda öxi að berjast við ferfætt kvikindi; alt meira og minna gegnskorið. Fyrir ofan þetta verk koma tveir snúningar á röndum fjalanna og þar fyrir ofan laufaviður gegnskorinn. Í efstu þverfjölina ofanverða eru reknir inn 19 trénaglar hausstórir og skornir í líking við valhnút, en framan á fjölina er skorin ein lína með sams konar höfðaletri, sem áður er nefnt, og þó miklu smærra:

ION ION SON A MIG SEIGER STOLLIN
GUD IESUS ChS SE MED OS

Á aptari stólbrúðurnar að framan er skorinn laufaviður í rómönskum stíl og ofarlega á þeim öllum fjórum eru telgdir eins konar brugðnir valhnútar, en þar ofan á fjórir riddarar; einn þeirra, sá sem verið hefir á stólbrúðunni hægra megin, þegar setið er á stólnum, er fyrir löngu brotinn af fyrir neðan mitti og týndur, en mun hafa verið heill, er safnið eignaðist stólinn; ríða þeir við beizli með snoppuól og í söðlum með háum kerlingum að framan, kringlóttum að ofan, eins og á gömlum kvensöðlum. Riddararnir hafa spánskan búning, sem tíðkaðist mjög hér á landi á 16. öld; tveir þeirra, þeir er til vinstri handar eru, þá er setið er á stólnum, hafa kollhúfu

á höfði, með litlu niðurbroti á hnakkanum, með einföldu bandi yfir um, en einn virðist að bera lágan hatt á höfði með litlu barði og snúnu skrautbandi um, stutta treyju slétta með standkraga eða heldur línkraga hálfuppstandandi. Ermarnar á þeim öllum eru sléttar og uppvíðar; treyjurnar slá sér allar út fyrir neðan mittið og eru sléttar á tveimur, en með fellingum fyrir neðan mittið á tveimur; stuttvíðar spánskar brækur með útskornum 4—5 geirum á lærunum á tveimur, en á öðrum tveimur með 6—7 borðum niður eptir lærunum í stað geiranna. (Sbr. Skýrslu um Forngripasafn Íslands, II, 49 og 161 bls.).

I stólsetunni er laus fjöl eða lok og botn neðst; má því geyma töluvert í stólnum.

Stóllinn er yfir höfuð mjög líkur þeim alþektu Grundarstólum, sem nú eru í Þjóðmenjasafninu í Kaupmannahöfn, og þó varla svo gamall sem þeir. Hann var áður í Draflastaðakirkju í Fnjóskadal. Á Draflastöðum bjó á ofanverðri 16. öld Jón sonur Jóns kolls Ormssonar og mun stóllinn vera smíðaður handa honum, en ekki vera upphaflega gerður til þess að vera kirkjustóll; á þetta bendir bæði það, að nafn hins fyrsta eiganda er á hann skorið, og svo hitt, að bakið á honum er óvandað og með engum útskurði að aptan, af því að hann hefir átt að standa upp við vegg, en eigi á miðju gólfi.

Stóllinn var gefinn safninu 1868 af Tryggva Gunnarssyni, bankastjóra, er þá bjó á Hallgilsstöðum í Fnjóskadal.



# Skýrsla.

## I. Aðalfundur fjelagsins.

Aðalfundur fjelagsins var haldinn 18. sept. 1897. Formaður skýrði frá hinu helzta, er koma mundi í Árbók fjelagsins fyrir þetta ár; væri eigi enn farið að prenta hana vegna annríkis prentsmiðjunnar, en á því mundi verða byrjað svo fljótt sem kostur væri á. Brynjólfur Jónsson hefði í sumar eins og að undanförnu unnið í þjónustu fjelagsins; hefði hann fyrst farið austur í Rangárvallasýslu að rannsaka eyðibýli þar, en seinna eptir tilhlutun fjelagsins fylgst með Premierlöjtinant Bruun á rannsóknarferð um eyðibyggðir í Arnessýslu. Bruun vildi sem sje gjarnan vera í samvinnu við fjelagið við fornleifarannsóknir sínar hjer á landi og hann hefði lofað, að láta til forngripasafnsins hjer allar þær fornmenjar, er hann kynni að finna. Því næst bar formaður fram þá uppástungu fjelagsstjórnarinnar, að Premierlöjnant Bruun væri gjörður að heiðursfjelaga og var það samþykkt með öllum atkvæðum.

Fram var lagður endurskoðaður reikningur fjelagsins fyrir 1896 og höfðu engar athugasemdir verið við hann gjörðar.

Samþykkt var eptir uppástungu fjelagsstjórnarinnar að gefa landsbókasafninu tímarit ýms og bækur, er fjelaginu hafa verið send frá ýmsum útlendum fjelögum og stofnunum.

Formaður gat um, að til fjelagsstjórnarinnar hefði komið áskorun frá Þjóðgripasafninu í Kaupmannahöfn, 2. deild, um að styðja að því, að á heimssýningunni í París árið 1900 yrði sýnt safn af hlutum, er gæfu upplýsingar um lifnaðarhátt manna og siðu hjer á landi á liðnum tímum; fjelagsstjórnin hefði tekið vel í þetta og hefði hún kosið formann og varaformann fjelagsins til þess fyrir fjelagsins hönd að ganga í nefnd með yfirstjórnendum forngripasafnsins og umsjónarmanni þess, í því skyni að koma máli þessu til framkvæmdar, ef til þess fengist fjárstyrkur sá, sem þörf er á,

Því næst voru kosnir embættismenn, fulltrúar og endurskoðunarmenn fjelagsins.

Að lokum hjelt Premierlöjtnant Bruun fyrirlestur, þar sem hann í stuttu máli skýrði frá fornleifarannsóknum sínum í sumar.

## II. Stjórnendur fjelagsins.

Formaður: Eiríkur Briem, prestaskólakennari.
Varaformaður: Pálmi Pálsson, latínuskólakennari.

Fulltrúar:
- Björn M. Ólsen Dr. latínuskólastjóri.
- Hannes Þorsteinsson, ritstjóri.
- Indriði Einarsson, endurskoðari.
- Pálmi Pálsson, latínuskólakennari.
- Steingrímur Thorsteinsson, yfirkennari.
- Þórhallur Bjarnarson, forstöðumaður prestaskólans.

Skrifari: Indriði Einarsson, endurskoðari.
Varaskrifari: Hallgrímur Melsted, bókavörður.
Fjehirðir: Þórhallur Bjarnarson, forstöðumaður prestaskólans.
Varafjehirðir: Sigurður Kristjánsson, bóksali.

Endurskoðunarmenn:
- Jón Jensson, yfirdómari.
- Valdimar Ásmundarson, ritstjóri.

## III. Reikningur

yfir tekjur og gjöld Fornleifafjelagssins árið 1896.

| | Tekjur: | | kr. | a. |
|---|---|---|---|---|
| 1. | Í sjóði frá fyrra ári: | | | |
| | a, geymt í sparisjóði . . . . . . . . kr. | 979,29 | | |
| | b, í vörzlum dr. Finns Jónssonar í Khöfn — | 41,70 | | |
| | c, hjá fjehirði . . . . . . . . . . . — | 259,40 | 1280 | 39 |
| 2. | Tillög og andvirði seldra Árbóka (flgsk. 1) . . . . . | | 137 | 00 |
| 3. | Styrkur frá Forngripasafninu til að spyrja upp forngripi . . . . . . . . . . . . . . . . . | | 75 | 00 |
| 4. | Styrkur úr landsjóði . . . . . . . . . . . . . | | 300 | 00 |
| 5. | Vextir úr sparisjóði til 31/12 '96 . . . . . . . . . | | 32 | 64 |
| | | Samtals: | 1825 | 03 |

Gjöld:

| | | |
|---|---|---|
| 1. Kostnaður við árbókina 1896, prentun hefting, og útsending (flgsk. 2, a—f.) . . . . . . . . . . | | 363 11 |
| 2. Greitt Brynjólfi Jónssyni fyrir fornleifarannsóknir o. fl. (flgsk. 3, a. og b.) . . . . . . . . . . . . | | 160 00 |
| 3. Ýmisleg útgjöld (flgsk. 4. a—b) . . . . . . . . | | 6 05 |
| 4. Í sjóði 31. desember 1896: | | |
| a. geymt í sparisjóði landsbankans . kr. | 1011,93 | |
| b. hjá fjehirði . . . . . . . . . . . — | 283,94 | 1295 87 |
| Samtals: | | 1825 03 |

Reykjavík 28. janúar 1897.
**Þórhallur Bjarnarson.**

# IV. Fjelagar.

## A. Æfilangt.[1]

Asgeir Blöndal, læknir, Eyrarbakka.
Anderson, R, B. prófessor; Ameríku.
Andrjes Fjeldsted bóndi, Hvítárvöllum.
Ari Jónsson, bóndi á Þverá, Eyjaf.
Árni B. Thorsteinsson. r.: landfógeti, Rvík.
Arnljótur Ólafsson, prestur, Sauðanesi.
Björn M. Ólsen, dr., skólastj. Rvik.
Bogi Melsted; cand. mag., Khöfn.
*Bruun D., Premierlöjtinant, Viborg.
Carpenter, W. H., próf., Columbia-háskóla, Ameríku.
Dahlerup, Verner, c. mag., bkv. Khöfn.
Eggert Laxdal, verzlunarstjóri, Akureyri.
Eiríkur Jónsson, vicepróf ast., Khöfn.
Eiríkur Magnússon, M. A., r., bókavörður, Cambridge.
*Elmer, Reynolds, dr., Washington.
Fiske Willard, próf., Florence, Ítalíu.
Goudie: Gilbert, F. S. A. Scot., Edinburgh.
*Hazelius: A. R., dr., fil., r. n, Stokkhólmi.
Henry Petersen, dr., Museumsdirektör, K,-höfn.
Hjörleifur Einarsson, r., próf., Undirfelli.
Jóhannes Böðvarsson, snikkari, Lágafelli.
Jón Gunnarsson, verzlunarstjóri í Keflavík.
Jón Guttormsson, f. próf., Hjarðarholti.
Jón Jónsson, próf., Stafafelli, Lóni.
Jón Vídalín, kaupmaður, Khöfn.
Jón Þorkelsson, dr. fil., r., rektor, Rvík.
Kjartan Einarsson, prófastur, Holti.
Kristján Zimsen, kaupmaður, Rvík.
Lárus Benidiktsson, prestur, Selárdal.
Löve, F. A.: kaupmaður, Khöfn.
Magnús Andrjesson, próf., Gilsbakka.
Magnús Stephensen, komm. af dbr. og dbrm.. landshöfðingi, Rvík.
Maurer, Konráð, dr. jur., próf., Geheimeráð, München.
Müller, Sophus, dr. museums direktör, Khöfn.
*Nicolaisen, N., antikvar, Kristíaníu.
Ólafur Johnsen, adjunkt. Óðinsey.
Pencock Bligh, esq., Sunderland.
Phené, dr., Lundúnum.
Schjödtz cand. pharm. Óðinsey.

1) Stjarnan (*) merkir heiðursfjelaga.

Sighvatur Árnason, alþm., Eyvindarholti.
Sigurður Stefánsson, prestur, Vigur.
Stampe, Astrid, barónessa. Khöfn.
Stefán Guðmundsson, verzlunarstjóri. Djúpavogi.
*Storch, A., laboratoriums-forstjóri, K.-höfn.
Styffe, B. G. (r. n.) dr. fil., Stokkhólmi.
Thomsen, H. Th. A., kaupm., Rvík.
Thorfhildur Þ. Holm, frú, Rvík.
Torfi Bjarnason, skólastjóri í Ólafsdal.
Wendel F. R., verzlunarstjóri, Þingeyri.
Wimmer, L. F. A., dr. fil., próf.. Khöfn.
Þorgrímur Johnsen, fyrv. hjeraðslæknir, Rvík.
Þorvaldur Jónsson, hjeraðsl., Ísafirði.
Þorvaldur Thoroddsen, dr., skólakennari, Rvík.

## B. Með árstillagi.

Amira, Karl v., dr., próf., München 96.[1]
Arnbjörn Ólafsson, kaupmaður, Keflavík 85.
Arpi, Rolf, dr. fil., Uppsölum. 97.
Benedikt Kristjánsson, fyrrum prófastur. Rvík. 96.
Bjarni Jensson, læknir, Hörgsdal 82.
Bjarni Þórarinsson, f. próf., Útskálum. 81.
Bjarni Þorkelsson, smiður í Ólafsvík. 92
Björn Guðmundsson, múrari. Rvík. 87.
Björn Jónsson, ritstjóri. Rvík. 96.
Brynjólfur Jónsson, fræðimaður, Minnanúpi. 97.
Collingwood, W. G., málari, Coniston, Lancashire. England.
Daníel Thorlacius, f. kaupm. Stykkishólmi. 92.
Davíð Scheving Thorsteinsson, hjeraðslæknir, Stykkishólmi. 80.
Einar Jónsson, kaupmaður, Eyrarbakka. 93.
Eiríkur Briem, prestaskólakennari, Rvík. 96.
Eiríkur Gíslason, prestur, Staðastað. 82.
Eyþór Felixson, kaupmaður, Rvík. 96.
Finnur Jónsson, dr., Khöfn. 96.
Forngripasafnið í Rvík. 97.
Friðbjörn Steinsson, bóksali, Akureyri 85.
Friðrik Stefánsson, bóndi, Skálá. 94.
Geir Zoëga, dbrm., kaupmaður. Rvík. 96.
Gering, Hugo, prófessor, dr., Kiel. 96.
Greipur Sigurðsson, bóndi, Haukadal. 92.
Grímur Jónsson, kennari, Ísafirði. 82.
Guðmundur Guðmundsson, bóndi, Ljárskógum. 88.
Guðmundur H. Finnbjarnarson, Stað, Aðalvík.
Guðmundur Pálsson, beykir, Ísafirði. 86.
Guðni Guðmundsson, læknir, Borgundarhólmi. 85.
Gustafsson, G. A., Filos. licentiat, konservator, Bergen. 93.
Halldór Briem, kennari, Möðruvöllum. 97.
Halldór Daníelsson, bæjarfógeti, Rvík. 96.
Halldór Kr. Friðriksson, r., yfirkennari, Rvík. 95.
Halldór Guðmundsson, f. skólakennari, Rvík. 85.
Hallgrímur Melsted bókavörður í Rvík. 96.
Hallgrímur Sveinsson, r., biskup, Rvík. 96.
Hannes Þorsteinsson, cand. theol., ritstjóri, Rvík. 96.
Harrassowitz, Ottó, bóksali, Leipzig. 95.
Helgi Jónsson, faktor, Borgarnesi. 96.
Horsford, Cornelía, miss, Cambridge, Massachusetts, U. S. A.
Indriði Einarsson, endurskoðari í Rvík. 93.
Jakob Atanasíusson, Gerði, Barðaströnd. 92.
Jón Jónsson, kand. med. & chir. 94.
Jóhannes Sigfússon, kand. theol., Hafnarfirði, 87.
Jón Borgfirðingur, f. löggæzlum., Akureyri. 96.

1) Ártalið merkir að fjelagsmaðurinn hefur borgað tillag sitt til fjelagsins fyrir það ár og öll undanfarin ár, síðan hann gekk í fjelagið.

Jón Jensson, landsyfirrjettardómari, Rvík. 96.
Jón Jónsson, prófastur, Hofi, Vopnafirði. 95.
Jónas Jónasson, prestur, Hrafnagili. 93.
J. Th. Johnsen, Suðureyri, Tálknafirði. 84.
Jörgensen, P., kapteinn, Stafanger. 92.
Kaalund, Kr., dr. phil., Khöfn. 96.
Kristján Andrjesson, skipstjóri, Meðaldal, Dýrafirði. 84.
Kristján Jónsson, yfirrjettardómari, Rvík. 95.
Lestrarfjelag Fljótshlíðar. 95.
Lestrarfjelag Austurlandeyinga. 95.
Magnús Helgason, prestur, Torfastöðum. 97.
Mattías Jochumsson, prestur, Akureyri. 80.
Mattías Ólafsson, verzlunarmaður, Þingeyri. 83.
Mogk E., dr., prófessor, Leipzig. 95.
Montelius, O., dr. fil., Am., Stokkhólmi. 95.
Ólafur Guðmundsson, læknir, Stórólfshvoli. 81.
Ólafur Ólafsson, prófastur, Hvoli. 81.
Olafur Olafsson, prestur, Arnarbæli. 81.
Olafur Thorlacius, hreppstj., Stykkishólmi, 83.
Ólafur Sigurðsson, dbr.m. í Ási. 96.
Páll Briem, amtmaður, Akureyri. 96.
Páll Melsted, sögukennari, Rvík. 96.
Pálmi Pálsson, skólakennari, Rvík. 96.
Paterson, W. G. Spence, breskur konsúll, Rvík. 96.
Pjetur Jónsson, blikkari, Rvík. 95.
Pjetur J. Thorsteinsson, kaupmaður, Bíldudal. 94.
Rannveig Jóhannesdóttir, kaupmannsfrú, Rvík. 96.
Rygh, Olaf, dr., prófessor, Kristjaníu. 95.
Sigfús H. Bjarnarson, konsúll, Ísafirði. 94.
Sigurður Briem, kand. polit., Rvík. 92.
Sigurður E. Sverrisson, sýslumaður, Bæ, Hrútafirði. 94.
Sigurður Gunnarsson, prófastur, alþingism., Stykkishólmi. 81.
Sigurður Kristjánsson, bóksali, Rvík. 96.
Sigurður Sigurðsson, kennari í Mýrarhúsum 97.
Staatsbibliothek í München. 95.
Stefán Egilsson, múrari, Rvík. 84.
Stefán Thorarensen, f. sýslum., Akureyri. 96.
Steingrímur Johnsen, kaupmaður, Rvík. 96.
Steingrímur Thorsteinsson, yfirkennari, Rvík. 96.
Steinnordh, J. H. V., theol. + fil. dr. (r. n.), Linköping. 93.
Sæmundur Jónsson, b., Minni-Vatnssleysu. 89.
Tamm, F., A., dr. docent, Uppsölum. 94.
Torfi Halldórsson, kaupmaður, Flateyri. 82.
Tryggvi Gunnarsson, bankastjóri, Rvík. 96.
Tvede, lyfsali í Reykjavík. 96.
Valdimar Ásmundarson, ritstjóri, Rvík. 96.
Valdimar Briem, r., próf., Stóranúpi. 95.
Valdimar Örnólfsson, verzlunarmaður, Isafirði. 83.
Valtýr Guðmundsson, dr. fil., docent, Khöfn. 95.
Þóra Jónsdóttir, frú, Reykjavík. 95.
Þórður Thoroddsen, hjeraðslæknir, Keflavík. 80.
Þórhallur Bjarnarson, lektor, Rvík. 96.
Þorleifur Jónsson, prestur, Skinnastöðum, 96.
Þorsteinn Benediktsson, prestur, Bjarnanesi. 88.
Þorsteinn Erlingsson, ritstjóri, Seyðisfirði.
Þorsteinn Jónsson, hjeraðslæknir, Vestmannaeyjum. 97.
Þorvaldur Jakobsson, prestur, Haga Barðaströnd. 93.
Þorvaldur Jónsson, prófastur, Ísafirði. 89.

## Leiðrjettingar

við Árbók fornleifafjelagsins 1896.

Bls. 12. línu 24. »þó« les »það«. Bls. 18. l. 7. »Sjást« les »þau« og l. 13. á eptir »hlöðu« vanta orðin: »Sjer fyrir fornum túngarði ofan af hæðinni niður að ánni«. Bls. 33. l. 31. »líkingum« les »líkindum«. Bls. 41. l. 1. »þetta« les »þau«. Bls. 52. l. 37. á »m. Harðivöllur« að vera í svigum.



Hóftóft í Bersatungu, blótsteinn og akur.

a. Hoftóftin. b. Blótsteinn. C akurinn.

I




Búðahamar eða Straumfjarðarþingstaður.

II




FOTOLITH. PACHT & CROHE

Bær Bjarnar Hítdælakappa í Hólmi.

A. Bæjarhóllinn með rústinni. B. Heimreiðartraðir.

C. Bæjarlækur. D. Vatnsveitingarásin frá honum.

III.




IV.

Fjall í Ölfusi

A. Bæjartóftin.

B. Vegur (forn) yfir hlaðið.

C. Fjós og heygarður.

D. Tóft á hlaðinu (bænhús?).







FOTOLITH. PACHT & CRONE

